# LESTRARKVER

HANDA

# HELDRI MANNA BÖRNUM

með stuttum skíríngargreinum

**UM STAFROFIÐ**

og annað þartil heyrandi,

samið

af

*RASMÚSI RASK,*

Prófessor í bókmentafræði, bókaverði Háskólans
og meðlim af ýmisligum lærðum Félögum.

Að tilhlutun

**Hins Íslenzka Bókmentafèlags.**



Kaupmannahöfn, 1830,

prentað hjá Dírektør *Jens Hostrûp Schûlz*
Konúngsins og Háskolans prentara.

# *Formáli.*

*Íslenzkir hafa raunar aungvan skort á allgóðum stafrofskverum; verð eg þessvegna að skíra frá tilgángi mínum með þetta nýa, sem eg hèrmeð dirfist að leggja undir almenníngs dóm.*

*Það er nú orðið svo almennt að prenta íslenzku, eins og önnur Norðrlanda túngumál, með latínuletri, að nauðsynligt þótti að venja únglínga snemma við að þekkja það; og líka að segja frá orsökinni, hvörsvegna það er innleidt bæði í Bókmentafèlaginu og því kgl. norræna Fornfræðafèlagi, nfl. að það er eldra og upprunaligra, snotrara og almennara hjá öðrum siðuðum þjóðum og í sjálfu sèr fullkomnara heldr en það gotneska múkaletr, þó bæði sèu í rann og veru eitt og hið sama.*

*Í sögum þeim er Fornfræðafèlagið eðr Próf. og Ridd. Rafn hefir útgefið er líka það latínska stafrof margfæld-*

*liga hagnýtt, til aðgreiníngа, sem með hinu eigi prentazt geta, t. d.* è *og* é, â *og* o, æ *og* œ, d *og* ð, *stundum einnig* ø *og* ö; *þótti tilhlýðiligt að skíra frá rökum og ásigkomulagi þessarar stafasetníngar, sem er að vísu eíngin nýbreytni í málinu, heldr svo gömul, að henni lá við að gleymast, þó mörgum kynni svo að þykja, sem væru einúngis vanir við það svo kallaða íslenzka letrið í seinni bókum.*

*Um brúkun þessa kvers mun lítið þurfa hèr að tala, þar eð hvör greindr maðr sèr, að rèttritareglurnar, sem nú var getið, eru ekki úngbörnum ætlaðar, heldr kennendum eðr eldri gáfuðum únglíngum, sem girnast kunna, og skilið geta. Bókstafahóparnir í byrjun eru lagaðir eptir aðferli nafnfrægs lestrarfræðimanns, A. Gamborgs, fyrrum prófessors í heimspeki og siðalærdómi. Segir hann það ónáttúrligt, að kenna börnum að þekkja marga smáhluti undir eins, og sýna þeim ekki nema eitt stykki af hverjum, elligar tvö med mjög ólíka mynd, en miklu skynsamligra að sýna þeim heilan hóp með viðlíka mynd af*

*hverjum fyrir sig; rètt eins og, ef kenna vildi nokkrum að þekkja korntegundir, væri vîst betra að sýna honum heilan hnefa af hvérri tegund î senn, heldr enn einasta eitt rúgkorn, eitt byggkorn, eitt hveitikorn, eitt bókhveitikorn, eitt hafrakorn o. s. fr.; og sakaði ekki þó hann sæi seinna baunategundir, svo hann hefði ekki um ofmikið að hugsa um sinn. Þykir mèr þetta rètt eptirtekið, og held eg þá aðferð skyldi hafa î öllum stafrofskverum.*

*Þau stykki, sem hèr eru innfærð úr biblîunni, eru ekki ætluð til að gánga î staðinn fyrir Katekismus; ættu börn aldrei að fara að læra hann, fyrr enn þau kynnu vel að lesa á bók, en mèr þykir ekki saka, þó þau venjist snemma á að fela sig guði á vald, og þekkja skyldu sîna bæði við guð og menn; verðr þeim þá hægra sîðan, þegar þau eiga að hugsa náknæmar um efnið, ef þau þekkja nokkuð til þess áðr; en auðskilið sýnist mèr Faðirvor og hin stykkin úr Nýa testamentinu, þannig sem þau eru nú seinast útlögð af því loflîga îsl. Biblîufèlagi. Býst eg þar að auki við, að þetta kver verði*

*aldrei svo brúkað af barni, að ekki segi skynsamr maðr til.*

*Rèttritagreinunum hefi eg heldr borið mig að tvístra, enn að safna, eðr færa í regluligt skipulag, svo ekki skyldu þær olla ofmiklum leiðindum. Bágast fèll mèr þar sem eg hafði að nefna ýmsa parta af málsins byggíngu, sem ekki er talað um venjuliga í bókum, varð eg þar að smíða nokkur ný orð; því eins ómöguligt og það er, að skíra frá húsabyggíngu, nema maðr hafi viss nöfn fyrir súlur, stólpa, vegg og rjáfr, og jafnvel smærri parta hússins, eins ómöguligt er það að gera sig skiljanligan um túngumálið, nema maðr hafi, eðr búi til, einskorðuð nöfn fyrir sèrhverja tegund orða og hneigínga, sem það inniheldr; en um þetta efni er lítið skrifað á íslenzku, og þótti mèr þó ónýtt að nefna þessa hluti á dönsku eða latínu eingöngu fyrir íslenzkum almenníngi. Verð eg þá mikilliga að biðja góða menn að afsaka, hafi það tekizt mèr miðr en skyldi, og að leiðrètta í tilsögn sinni, það sem mèr kann að hafa áorðið í þessu og öðru.*

---

## Hljóðstafir:

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| a | a | a | a | a | æ | æ | æ | æ | æ |
| á | á | á | á | á | æ | æ | æ | æ | æ |
| *a* | *a* | *a* | *a* | *a* | *æ* | *æ* | *æ* | *æ* | *æ* |
| *a* | *a* | *a* | *a* | *a* | *æ* | *æ* | *æ* | *æ* | *æ* |
| e | e | e | ê | ê | I | i | i | i | i |
| è | è | è | è | è | Í | í | í | í | í |
| *e* | *e* | *e* | *e* | *e* | *I* | *i* | *i* | *i* | *i* |
| *e* | *e* | *e* | *e* | *e* | *I* | *i* | *i* | *i* | *i* |
| O | o | o | o | o | Ö | ö | ö | ö | ö |
| Ó | ó | ó | ó | ó | Ö | ö | ö | ö | ö |
| *O* | *o* | *o* | *o* | *o* | *Ö* | *ö* | *ö* | *ö* | *ö* |
| *O* | *o* | *o* | *o* | *o* | *Ö* | *ö* | *ö* | *ö* | *ö* |
| U | u | u | û | û | Y | y | y | y | y |
| Ú | ú | ú | ú | ú | Ý | ý | ý | ý | ý |
| *U* | *u* | *u* | *u* | *u* | *Y* | *y* | *y* | *y* | *y* |
| *U* | *u* | *u* | *u* | *u* | *Y* | *y* | *y* | *y* | *y* |

e ö y i o a u æ

y a u ö æ o e i

## Samhljóðendr:

| | |
|---|---|
| b b b b b | ba, *bæ*, *bè*, bi, bo, bö, *bú*, *bý* |
| b b b b b | abb, æb, ebb, ibb, ob, öbb, |
| *b b b b b* | ubb, ybb |
| *b b b b b* | babb, bæb, bebb, bibb, bobb |
| | *abb-a*, æb-a, *ebb-i*, ibb-a, obb-u |
| d d d d d | da, dæ, *dè*, di, *dó*, dö, du, *dý* |
| d d d d d | add, ædd, edd, idd, *odd* |
| *d d d d d* | dadd, dædd, didd, dodd, dudd |
| *d d d d d* | add-a, *edd-a*, idd-u, *odd-i*, odd-a, udd-u |
| ð ð ð ð ð | *að*, *æð*, *eð*, *ið*, oð, uð, yð, |
| ð ð ð ð ð | *áð*, *óð* |
| ð ð ð ð ð | *að-a*, *æð-i*, *eð-a*, *úð-a*, *úð-i*, |
| *ð ð ð ð ð* | *yð-a* |
| *ð ð ð ð ð* | *áð-i*, *áð-u*, *óð-i*, *óðu* |
| P p p p p | pa, pæ, *pè*, pi, po, pu, py |
| P p p p p | ap, *æp*, ep, ip, *op*, *upp*, *ypp* |
| *P p p p p* | *papp*, pæp, pep, pip, pop |
| *P p p p p* | *ap-a*, *ap-i*, *æp-a*, *æp-i*, *upp-i* |
| Þ þ þ þ þ | þa, þæ, þe, þi, þo, *þú*, *þý* |
| Þ þ þ þ þ | *þá*, þè, *þó*, þö |
| *Þ þ þ þ þ* | |
| *Þ þ þ þ þ* | |

h h h h h — *há*, hæ, hè, hí, *hó*, hy
h h h h h — ha, he, hi, ho, hu, hö
*h h h h h* — hú, *hý*
*h h h h h*

K k k k k — *Ká*, kæ, ke, ki, ko, *kú*, ký
K k k k k — *ak*, *ek*, ik, *ok*, *ók*, uk, ök
*K k k k k* — kak, *kekk*, *kokk*, *kúk*, kök
*K k k k k* — *ak-a*, *ekk-i*, *óku*, uku

g g g g g — *gá*, gæ, *ge*, gi, go, gu, gy
g g g g g — *agg*, *eg*, *egg*, ig, *og*, ug, *ugg*
*g g g g g* — gag, geg, *gíg*, gog, gugg
*g g g g g* — agg-a, *egg-i*, *ugg-a*

J j j j j — Ja, jæ, je, jo, ju, *jú*, jy
J j j j j — *já*, jó, jö
*J j j j j* — aj, ej, öj
*J j j j j*

F f f f f — *Fá*, *fæ*, *fě*, fi, fo, fu, fy
F f f f f — *af*, *ef*, *of*, aff, *eff*, iff, off
*F f f f f* — faf, fæf, fef, faff, feff, fiff
*F f f f f* — *af-a*, *af-i*, *ef-i*, *ef-a*, *óf-u*

T t t t t — *Tá*, *tè*, tæ, *tó*, tu, tú, tö
T t t t t — *at*, *át*, *et*, ot, *út*, *ýt*
*T t t t t* — tat, tæt, tot, tott, tutt
*T t t t t* — *at-a*, *et-a*, *ot-a*, *Ott-a*, *ótt-i*, *át-u*, *æt-i*

m m m m m ma, mæ, me, mi, mo, mu
m m m m m am, *emm*, im, om, *um*, *ym*
*m m m m m* mam, mem, mim, mom, mum
*m m m m m* *amm-a*, *emm-a*, *ímu*

V v v v v Va, *ve*, vi, *vo*, *vó*, vö
V v v v v {áv, év, óv
*V v v v v* {áf, eif, óf
*V v v v v*

X x x x x
X x x x x *ax*, *ex*, ix, *óx*, ux, yx, *öx*
*X x x x x* *ax-a*, *ax-i*, ex-i, *ux-a*, *ux-i*,
*X x x x x* *ux-u*, *yx-i*

S s s s s *Sá*, *sæ*, *sè*, *sí*, *sú*
S ſ ſ ſ ſ sa, se, si, *so*, su, sy
*S s s s s* as, *ess*, *ís*, *íss*, *ós*, *óss*, *oss*
S *ſ ſ ſ ſ* sás, ſæs, *ſess*, sis, sos, sós
*S s s s s* ass-a, ess-a, *ísi*, iss-u, ossi, *ósi*

l l l l l *lá*, læ, lè, lí lo, lú, *lý*
l l l l l *al*, el, *ell*, *il*, *ill*, *ól*, *ull*, *öl*
*l l l l l* lal, lel, lil, lol, lul
*l l l l l* *al-a*, *al-i*, *all-a*, *ell-i*, *oll-i*, *ull-u*

C c c c c cæ, *cè*, ci, cy (=s)
C c c c c ca, co, cu (=k)
*C c c c c* ac, ec, ic, oc, uc
*C c c c c* ack-a, *eck-a*, *eck-i*.

n n n n n *ná, næ, nè,* ni, no, *nú, ný*
n n n n n *án, ann, en, enn, inn,* unn, *önn*
*n n n n n* nán, nen, nin, non, nun
*n n n n n* *ann-a, enn-i, inn-i, unn-u*

r r r r r *rá, ræ, rè,* ri, ro, rý
r r r r r ar, *er, err,* or, *úr, ýr, ær, ör*
*r r r r r* *rar, rær, rír, rór*
*r r r r r* arr-a, *ar-i, ór-a, úr-a, urr-a*

Z z z z z Za, ze, zi, zo, zu, zy
Z z z z z az, ez, iz, oz, uz, yz
*Z z z z z*
*Z z z z z*

## Lausaklofar:

ei bei, gei, lei, mei, *nei, sei! vei!*
*ei* *eik, eim, ein, einn, neiu, eitt, eið*

au bau, dau, gau, kau, lau, *þau*
*au* *auk, aum,* aup, *aur, autt, auð*

ey bey, *dey, fey! gey, hey, mey, þey*
*ey* *eydd, eyk, eym-ir, eyr, reyr, eys, eyð-i.*

---

bag-a, bag-i, bagg-i, bær, ber, bif, bók, búr;
dag, dal, dill-a, dís, dúr, dyl, dyr, dýr, deyr;

fák, fal, fall, far, fer, fíl, fíll, fór, fúl, fúll;
gaf, gef, ger, geð, gor, góð, gaur, geyr;
haf, háf, her, hèr, hol, hæl, hauk, heyr!
hóf, hyr, hýr, hyl, hin, hinn, hûn, húnn.
jag, já, jel, Jes-ús, jók, juk-u, jyk-i.
kaf, kef, kíf, koll, kór, kûm, kýr, kyrr,
kær, kör, keim, kaus, keyr!
lag, lág, lep, lif-i, líf, lof, lóð, lút, lýr,
læs, lög, leir, laus, leys;
mar, mel, mèl, míl-a, mol-i, múl, múll, möl.
nag, nár, níl, nóg, nýr, nær.
páf-i, pat-i, pok-i, pûk-i.
rak, rák, rètt, ritt-i, rot, rót, rær, rök,
rek, reip, raup, reyk;
sag-a, sár, set, sèð, sól, sæl, sæll, söl, sýp.
tak, táp, tek, tík, tók, tog, tugg-a, tök,
teinn, taug, teyg-i.
vak-i, veg-a, veg-i, vog, vóg, völ, völl, vær.
þak, þess, þor, þór, þær, þeim, þeirr-a.

---

(bjá, bjæ), bjag-a, bjó, bjugg-u, bjúg-a
blá, blær, blað, blíð, blóð, blys, bleik,
blauð, blaut, blautt, bleytt
brák, brak, brek-i, brík, brok, breið, brauð,
breyt, brúk, brýt
brjál, brèf, brjót.

(djar, dják), djup, djöf-ull
drag-a, drátt, drætt-i, drep, drós, dreif,
draup, dreyf-i, drýp
drjúp-a, drjúg, drjól-i, drjóll.

fjal-ir, fjall, fèll, fjór-, fjúk, fjöl, fjöll
flá, flæ, flet, flík, flokk, flók-i, flug, flaug,
fleir-a, fleyt-i
frá, fræ, frek, frí, frór, frú, frýs, fraus
frjá, frètt, frjór
fnas-a, fnik, (fnjó).

gjaf-ir, gjá, gjós-a, gjúk-i, gjöf
glaծ-ir, glep, gló-a, glæծ-i, glædd-i, glaum,
gleym-i — gljá, gljúf-ur
graf-ir, græ, grát, gref, grèt, gróp, grú-i,
graut, greip — grûf-u, grjón, grjúp-án
gnag-a, gná, gnæf-i, gnauծ, gnoծ, gnudd,
gnúp, gnýr, gneip.

hjá, hjal, hèծ-an, hjó, hjugg-u, hjú
hvá, hvaծ, hvel, hvæs-i, hvíl-i, hvik-ul,
hvol, hvum, hvönn, hveiti
hlák-a, hlakka, hlæ, hleծ, hliծ, hlíծ, hló,
hlut, hlaup, hleyp — hlè, hljóծ
hrá, hratt, hrædd, hrepp, hrók, hroծ-i,
hraut, hrut-u, hryt-i
hrjá, hrjót-a, hrjúf-ur

hnapp, hnef-i, hníg, hnig-u, hneig, hnoð-a
hnjá-a, hnè, hnjós-a.

Kjal-ar, kjá, kæ, kjól, kjóll, kjöl
kvað, kváð-u, kvæð-i, kveð, kvik, kví,
kvoð-a, kvöl
kláð-i, klak-i, klæð-i, klett, klíp, klif, kló,
klút, klöpp, kleip, kleyf
klauf, kluf-u, klyf-i, kljá, kljúf
krap, krá, kræk-i, kref, krít, kró, krof,
kryf, krjá, krjúp-a
knár, knitt, knos-a, ký, knúð
knjá-a, knè.

ljá, ljæ, lèt, lètt, ljóð, ljúf.

rjá, rèð, rètt, rjóð, rjúf.

mjám-a, mjað-ar, mèr, mjótt, mjúk, mjöl.

njál-a, njól-i, nè.

pját-ur, pjakk-a, Pèt-ur, (pjó, pjú)
plág-a, plat-a, plóg, plögg, pluss, plûs
prat-a, press-a, prik, próf, prúð
prjál, prè-dik-an, prjón.

vèk, vèl, vèr, Vla-di-káf-kas, (Vrag, vréð).

tjar-a, tjá, tè, tjón, tjör-u
tvær, tveir, tví, tvo, tvö

traf, treg, trog, tróð, trú, tröll, trygg
trjá-a, trè, trjón-a.

þjak, þjá, þètt, þjóð, þjöl
þvæ, þveg-inn, þvo
þras, þrá, þrek, þríf, þrif-u, þreif, þreyt-a,
þraut, þrýt, þrun-a, þröm, þrjár, þrjót-a.

Sjá, (sja), sè, sjó, sjúk, sjö
svar, sváf-u, svâ, svein, sveinn
ská, skó, skut-u, skûm, skúr, skaut, skön
skjá, skæ, ske, skip, skín, skjót, skjótt,
skýla, skyr, skeif, skeyt-i
skval, skvett, skvol
skrá, skræð-a, skraf, skref, skrif,
skrít-inn, skrûfa
slag, slá, slæ, slepp, slit, slít, slot, slút-a
sljár, sljór
smakk-a, smá, smið, smíð-a, smokk
smjað-ur, smjúg, smjör
snar, snák, snæ, snið, sníð, snauð, snoð-inn
snjár, snjór
spar, spá, spik, spít, spón, spun-i, spönn
spjall, spját-ur, spè, spjót
sprakk-i, sprek, sprot-i, spræn-a
star-i, stá, stef, stæk, steik, stoð, stóð,
stút, stig, stjak-i, stè, stjór-i

strák, strik, stríð, strok-a, straum, streym-i — strjál, strjón-a, strjúk.

### Athugasemd:

I latínustafrofi er ennú einn hljóðstafr œ, *œ*, er það límíngr, samsettr af *o* og *e*, en nð honum er kveðið eins og að *ö* edr *e*, t. d. pœna *(pöna, pêna)*, *straff*; mœstus, *sorgbitinn*. Finnst hann einnig í fornri norrænu: en þá kveða Íslenzkir að honum eins og að *æ*; t. d. bœr, dœg-ri, fœt-i.

Líka er ennú einn *samhljóðandi* í latínu, q, *q* (kú), er hann aldrei samteingðr hljóðstaf nè samhljóðanda nema *u*, og er hann þá lesinn eins og *k*, enn ú-ið, er hönum fylgir, eins og *v*, og standa í upphafi orða, t. d. quale *(kvale)*, *hvílíkt*; quem *(kvem)*, *hvörn*; quis *(kvis)*, *hvörr*. Sumir skrifa þó *v* fyrir *u* eptir *q*, svo sem: *qvale*, *qvem*, *qvis*, og þannig er *q* stundum skrifað fyrir *k* í íslenzku, þegar *v* kemr á eptir, t. d. qvað, qváð-u, qveð, qvið-a, qvíg-a, qvoð-a, qvæð-i, qvöl, qvein; þó það egi mjög illa við norðrlanda túngumál.

---

b. abl, ebl-i, kubl, öbl-ug.
Skrifa sumir, en rèttara mun *fl* heldr en *bl*.

f. hefj-a, nefj-um, rifj-a
lífg-an, höfg-i, þýfg-a

ríſk-a, Siſk-a
aſl, eſl-i, kuſl, öſl-ug, aſls, kuſls, gaſls
eſld, eſlt, teſlt, eſlds, keſlds
nafn, efn, ofn, höfn, nafns, ofús
nefnd, efnd, nefnt, efnt, jafnt, nefnds
hafð-i, æfð-i, leifð, hefð-i, höfð
hafðs, æfðs, leifðs
haft, æft, leift, ljúft
hafs, háfs, refs, kífs, ofs-i, hófs, vaffs
gafst, hefst, hófst.

g. segj-a, vígj-a, rægj-a, beggj-a, byggj-a
dyggv-an, höggv-a
hagl, negl-i, sigl-i, rugl, nögl
hagls, segls, rugls
hagld-ir, negld, sigld, neglt, siglt
neglds, siglds
agn, regn, rign-ir, Sogn, ögn
vagns, þegns, logns
egnd-i, rignd-i, egnt, lygnt, egnds
lagð, legð-i, lögð, lægð-i, teygð, leigð
lagðs, lægðs, teygðs, leigðs, byggðs
lagt, lægt, teygt, leigt
dags, eggs, nægs, rógs, rúgs, byggs, höggs
leggst, dregst, lagzt, vígsla.

ð. leðj-a, veðj-um, iðj-a, miðj-an, böðv-i
feðg-ar, mæðg-ur, ryðg-ar, auð-ga

maðk, iðk-a, buðk, blíðk-a, maðks
faðm, baðm, meiðm-ar, faðms, baðms
liðn-ir, loðn-a, roðn-ir, beiðn-i, auðn
baðs, háðs, veðs, liðs, víðs, lóðs
baðst, býðst, bauðst.

Sumir vilja einnig skrifa: dauðt, rauðt, víðt, síðt, leiðt (leiðr), en mèr sýnist það órètt; því í soddan tilfellum verðr annathvort, að ð samlagast tènu, svo þau verða að *tt*; t. d. gott (góðr, góð), glatt (glaðr, glöð), rautt, vítt, elligar öðruhvörju, *ð* eðr *t*, verðr slеppt; t. d. haft (hafð-r, höfð); lagt (lagð-r, lögð); gjört (gjörðr, gjörð); lært (lærðr, lærð); — gáð, sáð, lèð, sèð; en aldrei: *hafðt*, *lagðt*, *gjörðt*, *lærðt*, *gáðt*, *sáðt*, *lèðt*, *sèðt*.

d. sadds, odds, rudds, mædds
sadt, rudt, rædt, leidt, strídt.

Þannig er venjuligt at rita *dt* í staðinn fyrir *ddt*, þykir það styttra og nægiliga hart, er hart *d* og *t* koma saman, einnig nógu greiniligt, þegar gætt er að skrifa *tt* fyrir *ðt*; er þá:

glatt af glarð, glöð, en gladt af gladdr, glödd;
satt - saðr (sannr), - sadt - saddr, södd;
leitt - leiðr, leið, - leidt - leiddr, leidd;
reitt - reiðr, reið, - reidt - reiddr, reidd;
breitt - breiðr, breið, - breidt - breiddr, breidd;
mætt - mætr, mæt, - mædt - mæddr, mædd;
gætt - gættr, gætt, - gædt - gæddr, gædd.

k. ekl-a, mikl-ir, kukl, lykl-ar, jökl-ar
rakn-a, bákn, teikn, frækn-ir, líkn, sókn
lakt, sekt, líkt, lukt, lykt, dökkt, tækt
taks, ræks, bleks, biks, loks, dökks
akst-ur, tekst, tókst, eykst.

x. lax, vax, sex, vex-a, óx, ux-u, yx-i, söx
taxt-i, text-i, hixt-i, vöxt
jaxl, víxl, öxl, æxl-i.

Mætti fullt eins vel skrifa laks, vaks, seks, veks-a, óks, uksu; taksti, teksti, hiksti, vökst, öksl, akslir: en eigi sýnist mèr *lags*, *segs*, *legsli*, *vígsl* ega vel við íslenzka túngu; þareð þetta yrði allopt tvírætt.

l. fald, eld, síld, mold, úld-inn
elds, kalds, selds, fellds
hálf, kólf, úlf, ýlf-ast, tylft
hálft, kelfð, hálfs, úlfs
tálg-a, elg, ólg-a, dólg, volg
bylgj-a, velgj-a, fylgð, fylgt, volgt,
fylgðs, volgs, dólgs
bylgn-a, volgn-ar, sólgn-ir
dálk, volk, fólk, fylk-i, fylkj-a
dálks, fólks, velkt, fylkt, velkts, fylkts
tálkn, gálkn
álm, málm, ólm, hólm
álms, málms, ólms, ólmt
áln-ar, eln-að-i, kóln-ar

dálp-ar, vilp-a, hólp-inn, úlp-a, álpt
fals, falls, háls, helsi, heils, íls, hæls
falsk, elsk, ílsk-a, fólsk-a, dælsk
falskt, elskt, dælskt
falst, felst, villst, fyllzt, villzt
valt, elt-i, pilt, olt-ið, ult-u, fyllt, tölt
valts, fyllts.
r. arð, ferð, hirð, orð, kyrð, jörð, færð
færðs, verðs, orðs
arg, erg-i, org, byrg
args, argt, orgs, syrgj-a
ark, verk, lurk, örk, yrk-þú
arks, verks, lurks, merkt, orkt (ort)
jarl, ferl-i, þyrl-i, karl, jarls, karls
arm, erm-i, orm, arms, armt;
barn, járn, ern, horn, þyrn-ir
barns, járns, erns, ernt
sarp, verp, þorp, urp-u, Yrp-a
sarps, þorps
hárs, vers, súrs, örs, færs
varst, verst, þorst-i, fórst, fyrst, gjörst,
stærst, ærsl, versn-ar
gerzk, verzlan, gjörzt, færzt;
vart, sárt, ert-a, vert, ort, urt, súrt,
ört, fært, firts, orts (orkts)
arf, erf-i, hurf-u, hyrf-i, horf, örf
arfs, orfs, erfð, erft.

m. þamb-a, kemb-i, dumb, vömb
kambs, dumbs, sumbl;
samd-i, semd-i, sæmd, eymd, rumd-i,
emj-a, lemj-a, ymj-a, rymj-a
gaml-a, geml-ir, giml-i, göml-um
gamn-i, himn-i, samn-a (safna), komn-ir
kamp, hemp-a, kamps;
hamr-i, skemr-a, dymr-a
hams, aums, sums, ramms
kemst, lemst-ur, sæmst
amt, rammt, sæmt, aumt, eymt, reimt,
sumt, amts.

n. land, end, bind, fund-u, fynd-i
lands, ends, kennds, sunds
fáng, eing-i, þíng, kóng, úng, sýng, sæng
lángt, leingt, leingð, úngt, ýngð
lángs, kóngs, úngs, leingj-a, ýngj-a
leingst, leingzt, ýngst, ýngzt
þenj-a, venj-a, synj-a
þánk-i, þeink-i, dýnk, þeinkj-a, þeinkt
hanp, hanps
ant, ent (endt), kennt, lint, fínt, unnt, sýnt
hans, manns, hins, míns, þunns
kanst, finnst, enzt, kennzt, minnst
minnzt, kunst, vænzt, greinzt, hænsn-i
dansk-a, mensk-ir, lenzk-a, vonzka.

p. hapt, ept-ir, lopt, lypt-i, tópt, æpt, keypt
apl-i, epl-i, sópl, rupl, vopn
aps-i, happs, ups.

t. etj-a, sitj-a, vitk-ast, máttk-um
atl-i, ætl-a, fetl-i, netl-a, litl-ir
vatn, metn-ir, látn-ir, jötn-ar
láts, lats, horn-ótts, nets, netts.

s. nesj-um, disj-a, flysj-úng
ask, esk-i, æsk-i, beisk, ósk
asks, eskj-ur, æskj-a, fískt, beiskt
hesl-i, basl, gisl, písl, busl (bustl), mýsl-a
asn-i, lausn, upp-reisn
asp-ir, esp-a, ösp
ást, næst, hest, rist, ost, lust-u, lyst-ir.

z. gæzk-a, þýzk, þýzkt, þýsks, gózs-ins
gæzl-a, veizl-a
veizt, bezt, frèzt, fluzt, styzt, far-izt, bæzt.

## Athugasemdir:

Einn samhljóðandi er sá er atkvæði gerir án hljóðstafs, er það *r*; það lesist eins og *ur* þegar það stendr í niðrlagi orða eptir annan samhljóðanda, t. d.

kald-ṙ, haf-ṙ, dag-ṙ, tek-ṙ, al-ṙ, tem-ṙ, ven-ṙ;
lip-ṙ, mat-ṙ, Pèt-ṙ, sett-ṙ, mað-ṙ, veð-ṙ.
ak-ṙs, haf-ṙs, hat-ṙs, veð-ṙs;
mag-ṙt, vak-ṙt, vit-ṙt, lip-ṙt.

Margir skrifa *kald-ur*, *haf-ur*, *dag-ur*, *tek-ur*, en það þykir órètt, því þegar *-u*, *-um*, *-un*, *-ur*, *-ul*, *-uð* kemr á eptir, breytist *a* í *ö* þar fyrir framan, t. d.

köld-u, köld-um, höf-um, dög-un, dög-urð-ar-nes, dög-um, tök-um, svör-ul, völ-ur;

og ætti þá að segja: *köld-ur*, *höf-ur*, *dög-ur*, *tök-ur*, *möl-ur*, en það yrði bögumæli. Sumir segja *hönd-ur* fyrir *hend-r*; *tönn-ur*, fyrir *tenn-r*, er það órètt mælt, af því eintalan er ekki *handa*, *höndu*, heldr hönd, hendi, handar, en rètt skrifað eins og hönd-um, tönn-um.

Samkvæmt þessu þykir rètt að skrifa:

1) gölt-ur, kött-ur, löst-ur, mjöð-ur, kjöl-ur o.s.fr. því hljóðstafr fyrsta atkvæðisins lýsir því, að *u* komi á eptir. Þannig líka í öllum þeim karlkendum nöfnum, er egandinn *(gen.)* lyktar á *-ar*, og margtölu nefnandinn *(nom. pl.)* á *-ir* eða *r*, en þolandinn *(acc. pl.)* á *-u* eða *-r*, t. d.

fót-ur, þráð-ur, hátt-ur, son-ur, við-ur,

af því menn segja:

fót-ar, fæt-r; þráð-ar, þræð-ir, þráð-u; son-ar, syn-ir, son-u; við-ir, við-u o. s. fr.

2) Einnig í kvennkendum nöfnum, þar sem *ur* verðr sleppt í þolanda, fáanda og eganda eintölunnar, t. d. brúð-ur, brúð-i, brúð-ar.

3) Í frændsemisnöfnum, þar sem nefnandinn endar á *-ir*, t. d.

fað-ir, föð-ur; bróð-ir, bróð-ur; móð-ir, móð-ur; dótt-ir, dótt-ur; syst-ir, syst-ur;

en ekki í margtölunni:

feð-ŕ, bræð-ŕ, mæð-ŕ, dæt-ŕ, syst-ŕ:

4) Í margtölu þeirra nafna, er eintalan endar á *-a*, *-u*, t. d.

sag-a, sög-u, sög-ur; mæð-a, mæð-u, mæð-ur;

tafl-a, töfl-u, töfl-ur; túng-a, túng-u, túng-ur;

og jafnvel þó þau vanti eintölu, einúngis þau séu kvennkend, og heyri til sama nafnaflokks, t. d. mæt-ur, gön-ur, o. s. fr.

En *a)* ekkert nafn, sem er einsatkvæðis í eintölunni, á í margtölunni að skrifast með *ur*, t. d.

rót, ræt-ŕ; mörk, merk-ŕ; tönn, tenn-ŕ,

*b)* einginn egandi kvennkendra nafna, t. d. merk-ŕ-inn-ar, *c)* einginn nefnandi karlkendra viðnafna, t. d. láng-ŕ, stutt-ŕ, mæt-ŕ: nema kannske kvik-ur og dökk-ur, dygg-ur, trygg-ur; af því kykv-an, dökkv-an, dyggv-i, tryggv-i o. s. fr. sýna, að *u* eðr *v* sè þar ámilli orðs og endíngar; *d)* eingin sögn *(verbum)* í eintölunni, t. d.

tek-ŕ, sef-ŕ, bið-ŕ, stend-ŕ, vel-ŕ, hyl-ŕ;

því það sýna öll dæmi, að einúngis *r* en eigi *ur* kemr til, svo sem:

tala segi fæ sè bý ræ = tek

tala-r segi-r fæ-r sè-r bý-r ræ-r = tek-ŕ.

Eptir s fellr ŕ burt, t. d. viss fyrir viss-ŕ, laus fyrir laus-ŕ; sèst hèraf 1) að Gissur, Össur o. þessh. ega að hafa *ur*; því annars yrðu þau að *Giss*, *Öss*.

Af þessu þykir náttúrligast að stafa:

láuss-ri, viss-ri, viss-rar, all-ra, eyst-ra, vest-ra,

og kannske jafnvel að reikna aldrei samhljóðanda til undangángandi bókstafa, þegar þvílíkt samanhlaup á hvergi stað í niðrlagi orða, t. d.
bæg-ja, begg-ja, vek-ja, myl-ja, vér-ja, sem-ja, dögg-var, saung-var, dökk-var, böl-vi, möl-var,
af því *gj*, *ggj*, *kj* o. s. fr. finst hvergi í niðrlagi orða. þannig stafar einnig Sra. G. Pálsson:
telg-ja, lykk-ja, klyf-jar, nyrð-ra, syð-ra;
þó hann segist ekki vera á móti „að stafa: s y ð r - a, a l l r - a, líka sem stafast: h i m n - a r, k o m n - i r og annað þessu líkt, hver helzt samhljóðsstafr sem vera kann."

---

bjarg, bland, brauzt, brjóst, brèfs
djarft, djörf, dverg, dreing, drakkst, drapst
fjarsk-i, fjörs, fjalls, frísk, frask-a, frjálst,
frest, flest, fleingt
gjald, gjalds, gjörd, grænt, glóps, gnúps
hjaðn-a, hvort, hlaups, hnífs, hrafn, hrafns
kjóls, kvörn, kvölds, klakks, Knúts, krefst
ljóts, lèzt, mjöðm, mjaðm-ir, mjúkt
njörð-ur, njarð-ar-vött-ur, njáls
pjakks, plant-a, plaggs, prest, prests, prjóns
rjátl, rjóðs, rèðst
sjald-an, sjálft, sjúks, Sjöfn, slakt, slark
skáld, skarðs, skelf, skjálft-i, smurðs, smjörs
speld-i, spjalds, spark, spart, snars, snert
storm, stafs, stíft, straffs, svart, svört

tjald, tjalds, trogs, tryggs, traust
þjálf-i, þjálg, þraung, þreyng-ra, þránd.

---

Af þessum eða þvílíkum atkvæðum samanstanda öll orð í íslenzku máli. Til æfíngar getr þènað drottinlig bæn:

## Matt. 6, 9-13.

Fað-ir vor, þú sem ert á himn-um! helg-ist þitt nafn; til-kom-i þitt rík-i; verð-i þinn vil-ji, svo á jörð-u sem á himn-i; gef oss í dag vort dag-ligt brauð; og fyr-ir-gef oss vor-ar mis-gjörð-ir, eins og vèr fyr-ir-gef-um þeim, sem oss á mót-i brjót-a; og leið oss ekk-i í freistn-i, held-'r frels-a oss frá ill-u.

---

Upphafsstafir eru sumpart svo líkir þeim smáu eða venjuligu, að hvört barn sèr það glöggt, að það eru sömu teikn, t. d. *U* og *u*, *V* og *v*, hefi eg sett þá fremst í bókstafahópunum bls. 1-5 þegar svo stóð á; enn stundum eru upphafsstafir öðruvísi lagaðir, þarf þessvegna vel að þekkja ennú þessar bókstafamyndir, fyrr enn maðr getr lesið öll einkanöfn og annað, hvað sem vera skal.

## Hljóðstafir:

| | |
|---|---|
| A, *A*, a: | A-dam, A-bra-ham, Ar-i, Al-i |
| Á, *Á*, á: | Ár-ós, Ál-a-borg, Árn-i, Åk-i |
| E, *E*, e: | E-va, Eg-íll, Ermland, Eyst-land |
| È, *É*, *Ê*: | Ein-dræg-nis-land, É-rich-sen, Ê-gypzk-ir |
| Æ, *Æ*, æ: | Æg-ir, Æs-a, Æs-ir, Æg-is-dyr |
| Œ, *Œ*, œ: | Œ-có-lam-pa-dí-us, Œ-dí-pûs, Sunn-mœr-i. |

## Samhljóðendr:

| | |
|---|---|
| B, *B*, b: | Bald-r, Beð-a, Björg-vin, Bolg-ara-land |
| D, *D*, d: | Da-við, Dall-a, Dím-un, Djúp-i-vogr |
| Ð, Ð, ð: | AÐALFORS, EÐLA, AUÐUN |
| H, *H*, h: | Há-kon, Helg-a, Hólm-garð-r, Hekl-a |
| G, *G*, g: | Gaung-u-hrólf-r, Gyð-a, Gó-i, Græn-land |
| M, *M*, m: | Mán-i, Mar-grèt, Mön, Mex-í-kó |
| L, *L*, l: | Lopt-r, Liss-a-bon, Lín-kaup-áng-r, Lág-land |
| N, *N*, n: | Njáll, Níð-björg, Nið-ar-ós, Nið-r-lönd |

R, *R*, r: Ragn-ar, Rösk-va, Rín, Róm-a-borg
Q, *Q*, q: Quint-us, Que-bekkr, Queð-lín-borg.

---

## Mark. 4, 1-9.

Ein-u-sinn-i tók Jes-ús til at kenn-a við sjó-inn, dreif þá til hans svo mik-ill fjöld-i fólks, at hann hlaut að stíg-a á skip, og set-jast þar, en múg-r-inn all-r var á land-i fram við sjó-inn; þá kennd-i hann þeim mart í dæm-i-sög-um, og mælt-i til þeirr-a í sinn-i kenn-íng-u: *Gef-ið gaum að mál-i mínu! Sjá! mað-r nokk-ur fór að sá: en það vild-i svo til, þá hann var að sá, að sumt sæð-ið fèll við veg-inn, og fugl-ar kom-u, og át-u það; sumt fèll í grýtt-a jörð, hvar það hafð-i lít-inn jarð-veg. Þett-a óx að sönn-u skjótt, því það hafð-i lít-inn jarð-veg; en er sól-in tók að skín-a, skræln-að-i það, og visn-að-i, sök-um þess það hafð-i ekk-i nóg-ar ræt-r. Sumt fèll með-al þyrn-a, en þyrn-arn-ir ux-u upp, og kæfð-u það, svo það bar*

*eing-an á-vöxt. En sumt fèll í góð-a jörð, það spratt, óx, og bar á-vöxt; sumt þrí-tug-fald-an, sumt sex-tug-fald-an, og sumt hund-rað-fald-an. Nem-i þett-a* (seg-ir hann) *sá er nem-a kann!*

## 2. Bók Móysis, 20sti kap.

1. Eg er drott-in þinn guð, sem út-leidd-i þig*) af Ë-gypt-a-land-i, af því þræl-dóms hús-i: þ ú s k a l t e k k-i h a f-a a n n-a r-l i g-a g u ð-i f y r-i r m è r.

2. Þ ú s k a l t e i n g-i n b í-l æ t-i g j ö r-a þ è r, e ð-a n o k k-r a l í k-í n g, e p t-i r þ v í s e m e r á h i m n-u m u p p-i, e ð-r á j ö r ð-u n i ð-r i, e ð-a þ v í s e m e r í v ö t n-u n-u m u n d-i r j ö r ð-u n n-i; þ ú s k a l t e k k-i t i l-b i ð-j a þ a u, o g e i g-i þ j ó n-a þ e i m:**) því eg er drott-in þinn guð, einn vand-læt-and-i guð, vit-jand-i ráng-læt-is feð-rann-a á börn-un-um í þrið-ja, og fjórð-a lið, þeirr-a sem mig hat-a, en gjör-and-i mis-kun-semd á mörg-um þús-und-um, þeim sem mig elsk-a, og mín boð-orð varð-veit-a.

---

*) Gyðíngalýð.

**) *Það er að skilja:* til þess að tilbiðja þau eða þjóna þeim; *því ekki hefir guð forboðið bilætasmiði eða málaralist, heldr hitt að smíða skúrgoð eða mála.*

3. þú skalt ekk-i van-brúk-a drott-ins þíns guðs nafn: því ekk-i mun drott-in ó-hegnd-an ver-a lát-a, þann sem mis-brúk-ar hans nafn.

4. Minnst þú á sabb-ats-dag-inn, að þú helg-ir hann. Sex dag-a skalt-u erf-ið-a, og vinn-a all-a þín-a vinn-u, en sá sjö-und-i dag-ŕ er drott-ins þíns guðs sabb-ats-dag-ŕ, þá skalt þú ekk-èrt verk vinn-a, hvork-i þinn son-ur, ei held-ŕ þín dótt-ir, eig-i þinn þræll, eig-i þín amb-átt, eig-i þitt kvik-fè, eig-i held-ŕ nokk-ur út-lenzk-ŕ, sem er inn-an þinn-a borg-ar-hlið-a: því-at á sex dög-um gjörð-i drott-in him-in og jörð, og sjó-inn, og allt það, sem þar inn-i er, og hann hvíld-ist þann sjö-und-a dag; þar-fyr-ir bless-að-i drott-in sabb-ats-dag-inn, og helg-að-i hann.

5. þú skalt heið-ra þinn föð-ur og þín-a móð-ur, so þú láng-líf-ŕ verð-ir í því land-i, sem drott-in, guð þinn, gef-ŕ þèr.

6. þú skalt ekk-i í hel slá.

7. þú skalt ekk-i hór-dóm drýg-ja.

8. þú skalt ekk-i stel-a.

9. þú skalt ekk-i ber-a falsk-an vitn-is-burð mót-i þín-um ná-úng-a.

10. þú skalt ekk-i girn-ast þíns ná-úng-a hús, þú skalt ekk-i girn-ast þíns ná-úng-a kvinn-u, eig-i hans þræl, eig-i hans amb-átt, eig-i ux-a eð-ŕ asn-a, eð-a nokk-uð, það-sem hans er.

---

## Markús 10, 17-23.

Einhverju sinni, er hann (Jesús) var genginn út á strætið, kom maðr hlaupandi, laut honum, og mælti: „Algjörði meistari! hvað skal eg gjöra, til þess eg öðlist eilífa sælu?"

Jesús mælti: „Hví kallar þú mig algjörðan? Guð einn er algjörðr! Boðorðin veiztu: þú skalt ekki drýgja hór; ekki mann vega; ekki stela; ekki bera ljúgvitni; ekki svíkja; heiðra föður þinn og móður."

Hinn svaraði: „Meistari! þetta allt hefi eg haldið frá barnæsku minni."

Jesús leit þá til hans vinsamliga, og mælti: „Eins er þèr enn nú vant: sel þú allar eigur þínar, og gef fátækum, þá hefir þú aflað þèr fjár á himni; kom síðan, tak minn kross, og fylg mèr."

En er hann heyrði þetta, varð hann sorgbitinn, og fór hryggr í burt, því hann var maðr auðugr. Þá litaðist Jesús um, og mælti við lærisveina sína: Hversu torvelt er þeim ríku að öðlast Guðs ríki!

---

Stafrofið í þeirri venjuligu röð:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| A a | á | | P p | pè | |
| B b | bè | | (Q q | qú) | |
| (C c | cè) | | R r | err | |
| D d | dè | | S ſ s | ess | |
| E e | e | | T t | tè | |
| F f | eff | | U u | ú | |
| G g | gè | | V v | vaff (vè) | |
| H h | há | | X x | ex | |
| I i | í | | Y y | ý | |
| J j | joð (je) | | Z z | zeta | |
| K k | ká | | Þ þ | þorn (þá) | |
| L l | ell | | Ð ð | eð*) | |
| M m | emm | | Æ æ | æ | |
| N n | enn | | Œ œ | œ | |
| O o | ó | | Ö ö | ö | |

þessu stafrofi fylgja þrennslags áherzlúmerki eða lestrarmerki:

(ˊ) það harða, t. d. á ská, í nótt.

(ˋ) það þúnga, t. d. hlè, Sekretèri, vilì, þriðì, hverìr.

(ˆ) það dragandi, t. d. vân, êgypzkr, elýsêiskr, hûn, dûfa.

*) Sumir kalla þenna staf stúngið Dè, en Eð heitir hann í þeim málslistar ritgjörðum er Skáldu fylgja, þykir það einfaldara og samkvæmara eðli hans, „oc vel megu þeir hann láta svâ heita."

Til þess að skilja vel brúkun þessara merkja, er nauðsynligt að þekkja sundrgreiníng bókstafanna, er þeim þá skipt í tvo höfuðflokka, hljóðstafi eða raddarstafi og samhljóðendr. Áherzlumerkin koma einúngis raddarstöfunum við, og ráða framburði þeirra. Raddarstafir allir eru aptr tvöfaldrar náttúru í norrænu, annaðhvort linir og jafnir, eða harðir, einsog tvíhljóðandi; kallast þessir venjuliga *digrir*, en hinir *grannir*. Þannig eru:

grannir: *a*, *e*, *i*, *o*, *u*, *y*, *ö*,
digrir: *á*, *æ*, *í*, *ó*, *ú*, *ý*, *œ*.

Sá seinasti er að sönnu ekki venjuliga brúkaðr í íslenzku nú á dögum, en fornmenn, sèrílagi Norskir, brúkuðu hann sífeldliga, þar sem *œ* er dregið af *ó*, t. d. ek fœri af fór, glœpr af glópr, dœtr af dóttir, og jafnvel þó undirstaðan með ói sè ekki til í norrænu, t. d. fœða af ensk. *food;* sœtt á holl. *zoet;* rœkja, þýzk. rúck-. Er hann því ómissandi þeim sem fornrit útgefa, og þykir stórt misgrip að láta setja *ö* í staðinn, þareð *ó* aldrei umbreytist í *ö* eptir eðli þessa túngumáls, og sitt er hvað: bönum og bœnum (bónum), Reyk-dœlum og dölum, högum og hœgum, sömdum og sœmdum, höfum og hœfum, grön og grœn, rör og rœr o.s.fr. Mætti raunar halda honum enn í skrifi, og kveða að honum eins og að *æ*, fyrst almennt er að halda *y* og *ey*, þó allir nú á dögum kveði að þeim eins og að *i* og *ei*, til þess að

sýna uppruna þvílíkra orða, sèrílagi þareð hann er nauðsynligr í latínu og frönsku.

Áherzlumerkin eru ómissandi í íslenzku, sèrílagi það harða, er brúkað er yfir *a*, *i*, *o*, *u*, *y*; það eykr við hljóðið einhvörskonar ofr línu *v* (*w*) eðr *j*, svo *á*, *ó*, *ú* hljóða nærri eins og *av*, *ov*, *uv*, en *í*, *ý* nærri eins og *ij*, *yj*. — Hefði líka mátt setja það uppyfir *e* í staðinn fyrir *ei*, og á víst að setja, þar sem fornritaútgefendr vilja halda rithætti gamalla skinnbóka, er *e* hafa opt fyrir *ei*, t. d. þérri, til jartékna, égi, héll fyrir þeirri, til jarteikna, eigi, heill. Líka í framandi orðum, t. d. Évrópa. En það er aðgætandi að hafa ekki *é* fyrir *ei* i orðunum *að ega*, *eg geng* o. þessh.; því hèr er hljóðið annað, og grannara, svo að hèr dugir *e* slètt og rètt.

það þúnga er hinu gagnstætt, og þessvegna vel fallið til að sýna, að einhvörskonar ofrlint *j* eða *v* (*w*) gángi á undan hljóðstafnum, það brúkast sèrílagi uppyfir *e*, sem þá hljóðar eins og *je*, t. d. lèt, mèr, hèkk, fèll; þykir það miklu rèttara heldr en *ljet*, *mjer*, *hjekk*, *fjell*, af því ekkert *j* finnst annars í slíkum orðum, t. d. læt, mig, hángir, fell, en eigi *ljæt*, *mjig*, eða þessh.; einnig miklu betra en *lét*, *mér*, o. s. fr., sem aðr hefir brúkað verið, þareð (´) heyrir þeim digru hljóðstöfum til, en *e*, sem áherzlumerkið þarf, er altènt upphafliga grannt eðr stutt, t. d. hèt á dönsku *hed* eðr *hedd*; lèt á ensku *let*, rètt á þýzku

*recht;* fèll á svensku *föll;* brèf á latínu *brĕve (scriptum)*, èg á grisku *εγω*. — *i* þykir líka ágætt í fornritaútgáfum, til að sýna framburðinn, þar sem sleppt er *j* fyrir framan *i*, án þess að umbreyta stafasetníngu fornmanna; t. d. hverìr, vilì, biðì, þ. e. hverjir, vilji, biðji; verðr annars opt óljóst orðið, t. d. annað er biði, og enn annað bíði. En í núverandi íslenzku þykir betr fallið að skrifa *ji*, af því *j* finnst venjuliga í öðrum endíngum þvílíkra orða, t. d. hverjum, hverjar, vilja, biðja. — Einsog (') brúkast stundum fyrir lint *v*, stundum fyrir *j* á eptir hljóðstafnum, hvað hægliga greinist eptir eðli hljóðstafsins, er það skrifast uppyfir, svo mætti (') líka brúkast bæði fyrir *v* og *j* framan við hljóðstafinn, þó ekki þar sem *v* er veruligr rótarstafr í orðinu, t. d. hvað, vèr, heldr þar sem það er óveruligt og seinna innsmeygt í tali, t. d. Gúð, Gúðmundur, Gúðný, gúðhræddr o. þessh.

það dragandi hefir verið lítið brúkað í íslenzku, en er þó mjög nytsamligt, þegar það er sett yfir lángan og grannan raddarstaf, sem dreginn er af digrum, svo sem 1) yfir *a*, þar sem fornmenn sögðu *á* en nú er almennt talað *o*; t. d. svâ, vâr, hvârir, hûnum. Eldri útgefendr hafa hèr venjuliga eintómt *a*, verðr það opt tvírætt, t. d. á vara túngu, mikil van, í var eð var, en eigi má heldr skrifa vára, ván, vár eptir túngunnar núverandi

eðli; þykir þessvegna gott úrræði að skrifa **vâra**, **vân**, **vâr** o. s. fr. Hafa líka Danir og Svíar optliga *å* í slíkum orðum, t. d. *Vår-en.* Þó á þetta *â* helzt heima í útgáfum fornrita, þareð nú er algengt að skrifa **svo**, **vor**, **hvorir** (ekki *hvorjir)*, **honum**, **vora**, **von**, **vor-ið**. — Upprunaligt *æ* er líka opt orðið at grönnu hljóði, þykir þá *ê* ágætt til að sýna bæði framburð og uppruna, t. d. **Galílêa**, **Júdêa**, **évrópêiskt**, **êgypzkr**. — Einnig ú tapar margopt sínn digra hljóði, og verðr að grönnum og jöfnum raddarstaf, þó mjög öðruvísi sè að honum kveðið heldr enn að *u;* finnst þá valla annað betra meðal til að sýna framburðinn heldr en *û*, t. d. **pûki**, **dûfa**, **hûn**, **kûnni**, öðruvísi enn **brúki**, **húfa**, **brún**, **brúnn**.

Er þá (´) merki enna digru eða tvíhljóðandi raddarstafa, og bætir við þá einhvörju; en (`) enna grönnu, þegar eitthvað óljóst *j* eðr *v* gengr á undan þeim; og (^) enna grönnu, sem komnir eru af digrum. Fleiri breytíngar hljóðstafa finnast ekki í íslenzku máli, og fleiri áherzlumerki finnast ekki heldr í latínu og frönsku stafrofi.

Enn er hljóðstöfunum öðruvísi skipt, því munr er á fyrsta stafnum í **gát** og **gæt**, **goð** og **gyðja**, **góðr** og **gœði**, **kát** og **kæt**, **skal** og **skel**, verðr eins og linn *j* innsmeygt fyrir framan hljóðstafinn í hinum seinni tilfellum, svo að sumir skrifa *gjæl*, *gjæði*, *kjæl*, *skjel*, þykir

þetta hljóð veikara eðr linara, en hitt harðara. þannig eru í norrænu máli:

harðir: *a*, *á*, *o*, *ó*, *u*, *ú*, *ö*, einnig *au*
linir: *e*, *æ*, *i*, *í*, *y*, *ý*, *œ*, — *ei*, *ey*.

þeir linu raddarstafir færa altènt með sèr þetta *j*, þegar *g* eðr *k* gengr á undan, þarf þessvegna ekki, og á ekki, að skrifa það í þessum tilfellum; sèrílagi þar það er aldrei veruligr rótarstafr í þvílíkum orðum, t. d. gef, gaf; kæmi, kom; skœði, skór; ekki *gjef*, *kjæmi*; *skjæði*; og þar eð aldrei er skrifað gjikkr, gjífr, gjyðja, Kjýpr, kjeipar, gjeymi. þessvegna á ekki heldr að skrifa *gèf*, *kèlr*, *skè*, þar eð einginn skrifar *gìkkr*, *gìfr*, *kèipar*, *gèymi*. Einúngis þar sem *g* eðr *k* ekki heyrir sama atkvæði til, mætti skrifa è, t. d. Eggèrt, ekk-èrt. En þegar harðr hljóðstafr kemr á eptir, er nauðsynligt ad skrifa *gj*, og *kj*, egi hljóðið að verða lint; t. d. kjala, gjá, gjóðr, kjurr, kjör, er allt annað enn kala, gá, góðr, kurr, kör. Í dönsku er þetta nokkuð öðruvísi, er þar *e* hart en *ö* lint, þarf þessvegna að skrifa *Gjed*, geit; *Kjedel*, ketill; *skje* o. s. fr.; en nóg er þar að skrifa *Kön*, kyn; *göre*, gjöra, gera.

Loksins má skipta raddarstöfum í upphafliga og afleidda, t. d.

| | |
|---|---|
| a - e: halda, held; | ó - œ: dómr, dœmi; |
| a - ö: blað, blöð; | e - i: regn, rignir; |
| á - æ: láta, læt; | o - y: sonur, synir; |

u - y: gull, gylli; au - o: baugr, bogi;
ú - ý: brún, brýni; au - ey: kaupi, keypti.
Þetta kemr at sönnu heldr málfræði við enn lestrarfræði, en þó þarf nauðsynliga að þekkja það vel, til þess að geta aðgreint *i*, *í*, *ei*, *æ* frá *y*, *ý*, *ey*, *æ*. Af þessu finnst *i*, *í*, *ei* í upprunaorðum, t. d. *vil*, *ríð*, *seint*, og eru skyld sín á milli, t. d. *veil*, *vilum*; *ríð*, *reið*, *riðum*. Lika er *i* opt dregið af *ja*, *jö*, t. d. girnist af gjarn, gjörn; birni af björn; og er rángt að skrifa *y* í öllum þvílíkum tilfellum. En *y* er dregið af *o* eðr *u*, *ý* af *ú*, *jó*, eðr *jú*, en *ey* af *au*; og er rángt í slíkum orðum að skrifa *i*, *í* eðr *ei*, t. d. nyrðra af norðr; syðra af suðr; sýra af súr; sýni af sjón; mýki af mjúkt; reyni af raun. Stundum finnst sá upphafligi hljóðstafr í öðrum túngumálum, t. d. fylgi, á þýzku *folge*; eyra, á lat. *auris*; yfirhöfuð getr maðr skrifað *y*, *ý* eðr *ey*, þar sem Danskir, Norskir eða Svenskir hafa *y*, *o* eðr *ö*; t. d. styrkr, d. *Styrke*; mysa, *Myse(-ost)*; byrja, sv. *börja*; myrkt, d. *mörkt*; hey, d. *Hø*; reyr, *Ror*. Þannig aðgreinast mörg orð, sem annars kynnu að blandast og orka misskilníngar, t. d.
list, *kunst*; lyst, *girnd*; bið af *biða*, býð af *bjóða*; rið á brú; ryð á járni; ríð af *ríða*, rýð af *rjóða*; ei *ekki*, ey *hólmr*; leistr á sokk, leystr af *laus*.

Sra. G. Pálsson tilgreinir enn þessi dæmi:
seyðir búkona, seiðir galdrakona;
eg eygi það fyrir augun ber, enn annað eigi;
ann hver sínum seimi, og konur sínu seymi;

**leifi** eg þèr arf, og **leyfi** með að fara;
sanna þú með **eiði**, að jörð þín standi í **eyði**;
ei mun eg **neita**, matar míns að **neyta**;
**eik** er trè, og **eyk** eg þessu við;
*eykr dregr vagn, eikr verða eldri enn menn.*

Að *æ* dragist af *á*, en *œ* af *ó* er aðr getið, en því má hèr viðbæta að *œ* samsvarar opt *ü* í þýzku, t. d. **kœnt**, *kühn*; eg **œfi**, *ich übe*; **grœnt**, *grün* o. s. fr.

Þegar tveir raddarstafir sameinast og samlagast í einu atkvæði, heita þeir *tvíhljóð*, skrifast þeir annaðhvort sundrlausir eins og *au*, *ey*, *ei*, og heita þá *lausaklofar*, eðr samantengðir eins og *æ*, *œ* og heita þá *límingar*. Optast nær tapar þó sá seinni raddarstafr sínu náttúrliga hljóði í þessum samböndum, og verðr að nokkurskonar óljósum samhljóðanda; þessvegna skrifa Danskir *av*, *ev* o. s. fr., t. d. *Avl*; en Latínumenn *au*, *eu* o. s. fr., t. d. *aula*; en Íslenzkir *á*, t. d. **álar**; er það allt sama hljóð, og þannig eru allir digrir hljóðstafir í íslenzku nokkurskonar tvíhljóð. Sjá bls. 27.

Latínumenn, Franskir og aðrar þjóðir hafa sèrligt teikn (¨), er kalla má *sundrúngarmerki*, að setja uppyfir seinna hljóðstafnum í lausaklofum sínum, þegar hann á að sundrast frá hinum í framburðinum, svo að þeir heyrast sinn í hvörju atkvæði, t. d. *Olaüs* (þ. e. *Óla-us*), svo maðr lesi ekki *Ólás* eðr *Ólâs* eptir frönskum hætti. En þess er engin þörf í norrænu, þegar gætt er að setja áherzlumerkin rètt, þar eð hvör maðr sèr, að hljóðstafirnir í **fáum**, **fái**,

sèu, elýsêiskr, mói, búi, ega að lesast sinn í hvörju lagi, og ekki eins og lausaklofar.

Nú er að tala nokkuð um samhljóðendr og þeirra náttúru; er þeim einnig skipt í flokka á þessa leið:

*a.* hljóðlausir eða sljófir eru:

| | vara- | túngu- | góm-stafir: |
|---|---|---|---|
| linir: | b, v, | d, ð, | g, j; |
| harðir: | p, f, | t, þ, | k, h. |

*b.* hálfhljóðandi eða hvassir eru aptr:
mjúkir: m, n, l, r;
blístrandi: s, z;
tvöfaldr: x.

Sumir vilja ekki telja *j* og *h* með gómstöfum, en *j* er þó raunar einhvörskonar lint *g*, sem sèst af orðunum rógi; vegr, vegir; bægi, bægði; segi, sagði, er skrifa mætti *róg*, *rðji*; *vegr*, *vejir*; *bæji*, *bægði*; *seji*, *sagði* eptir núveranda framburði. Um *h* læt eg duga, að innfæra hèr orð Sra G. Pálssonar í hans *Stöfunärbarni* bls. 12. „Hvarhjá bið, þeir hlutina þekkja sig ei ásteyti, þótt *h* standi hèr meðal gómstafa, þar sá stafr er annars einn sèr í vorri túngu, og þarhjá hinum náskyldr, sem bæði sýna sum orð í voru máli (t. d. Knútr og hnútr, hríngr og í kríng) og samburðr margra vorra orða við mörg önnur, einkum grísk og latínsk"; (t. d. *κανναβις*, hanpr; *κρεας*, hræ; lat. *cornu*, isl. horn; lat. *caper*, isl. hafr.)

Af þeim mjúku samhljóðendum má telja *m* með varastöfum, og *n* með túngustöfum, en tvísýnna er, hvort *l* og *r* einnig sèu skyld gómstöfunum.

Sumir telja *z* með tvöföldum bókstöfum, og víst er það, að opt brúkuðu fornmenn það fyrir *st* í niðrlagi orða, t. d. takaz fyrir takast, eða fyrir *ss* í miðju, t. d. Gizur fyrir Gissur, en nú er það heldr sett fyrir *s*, sem *t*, *d*, eða *ð* er sleppt fyrir framan, t. d. vizka, vonzka, gæzka fyrir *vitska*, *vondska*, *gæðska*, er það þá öldúngis samhljóða *s*, og þènar einasta til vísbendíngar, hvaðan þvílík orð sèu dregin.

Í tilliti til stöfunarinnar er lítill vandi við samhljóðendrna, þó sumir af þeim hafi tvöfaldan framburð; hitt er heldr bágt að ákvarða, hvort maðr egi að skrifa *ei* eðr *e*, *í* eðr *i*, *ý* eðr *y* fyrir framan það lina *g*, af því þetta hljóðar eins og *j*, og þessvegna samlagast undangánganda hljóðstaf, með hvörjum það gerir nokkurskonar lausaklofa, svo að t. d. *heii*, *heigi*, *hegi*, *heyi* og *heygi* hljóðar eins eptir núveranda framburði: þykir það eitt ráð, að gæta vel 1) að öðrum hneigíngum sèrhvörs orðs, og 2) að rithætti annara viðlíkra en miðr óljóssra orða, t. d.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| vegir | af | vegr, | en | veig, veig-ar; |
| segi | vegna | sagði, | - | sá seigi af seigt; |
| þegi | — | þagði, | - | þeigi af þó-eigi; |
| hnigið | — | hnignir, | einsog | liðið, riðið; |
| stigið | — | stignir, | — | gripið, vikið; |

| | | | |
|---|---|---|---|
| lygi | vegna lygar, | einsog | einstigi af stigr; |
| flygi | — flugu, | — | krypi, lyki; |
| hneigi | — hneig, | — | eg reiði af reið; |
| leigi | — leigði, | — | beygi, beygði; |
| eiginn | — eign, | en | feginn vegna fegnir, fagna, fagnaðr. |

Opt geta þó tvö orð verið lík sín ámilli, og má ekki greina þau hvort frá öðru, framar enn rætr þeirra leyfa, t. d.

veginn af vegrinn og veginn af eg veg;
deigi - deig - sá deigi af deigr.

Enn er efi um viðrnöfn á *-ligt*, *-ligr*, *-lig*, og viðrsagnir á *-liga*, er margir skrifa með *e;* en mèr þykir æði munr á hljóðinu í lega, legu, t. d. útilega, innilega og ýtarliga, inniliga; hafa líka fornmenn jafnan haft *i* í þessum endíngum, eins og Danskir, Svenskir og þýskir ennú hafa; Hollendíngar skrifa jafnvel -lijk, en eingin þjóð *-legt*, eðr *-lega*; meina eg því þetta sè miðr rètt í íslenzku.

*C* er latínskr stafr, og merkir upprunaliga sama hljóð og *k*, sem er grískr stafr, er ekki brúkast í latínu máli: en seinna er *c* lesið 1) eins og *k* fyrir framan *a*, *o*, *u* og alla samhljóðendr, líka í niðrlagi orða; 2) eins og *s* fyrir framan þá linu hljóðstafi *e*, *i*, *y*, *æ*, *œ*, en bezt fer í norrænu, eptir reglu Sra. Bjarnar Halldórssonar, að skrifa *k* eðr *s*, en aldrei *c*, nema kannske í framandi einkanöfnum, þar sem það hljóðar eins og *s*, samkvæmt nafni sínu, t. d. *Cicero*. Leingst hefir það haldizt

hjá Íslenskum í *ck* fyrir *kk*, en þar eð allir aðrir samhljóðendr tvöfaldast án allrar tilbreytíngar, sýnist eins rètt að tvöfalda *k* blátt áfram, t. d. drekkr eins og leggr, lykkja eins og bryggja o. s. fr.

*Q* er eins óþarfr latínskr stafr, og jafnvel skaðligr í norrænu; þar hann eins og felr uppruna orðanna; því t. d. kvíga, mun dregið af kýr, kú; kvinna, kvenna af kona; kvæmt af kem, kom; að kyrkja af kverk; kvoða er á svensku kåda; kvel á ensku kill; yrði þetta óljóst, ef maðr skrifaði quíga, eðr qvinna o. s. fr. Grískir brúkuðu einnig *κυ* fyrir *qu* eins vel og *κ* fyrir *c* og *κκ* fyrir *cc* Latínumanna, þykir því rèttast að Íslenskir einnig brúki *k* allstaðar, en sleppi *c* og *q* að öllu leiti.

Í orðum og nöfnum af framandi túngum eru sumir stafir, einstakir eðr fleiri í sambandi, opt úttalaðir mjög öðruvísi en í íslenzku, t. d. *æ* eins og *e*, *au* eins og *á*, *ph* eins og *f*, *th* eins og *þ*, *ch* eins og blístrandi *k*, sem vantar í íslenzku; enn fornmenn löguðu þesskáttar orð venjuliga eptir íslenzkum framburði, og skrifuðu:

pape fyrir *papæ*; Egyptaland fyrir *Ægyptus*;
Nikulás fyrir *Nicolaus*; Páll fyrir *Paulus*;
Filippus fyrir *Philippus*; Lafranz fyrir *Laurentius*;
Rín fyrir *Rhenus*; trón fyrir *thronus*;
Kristr fyrir *Christus*; erkibiskup fyrir *archiepiscopus*;

þannig er vant af alda öðli, að skrifa náttúra, Affríka, sálmr, púnktr, kastali, penni o. s. fr. ekki *natura*, *Africa*, *psalmus*, *punctum*, *castellum*, *penna*; og er einsætt að hafna eigi þeim viðtekna rithætti, til þess að trubla eigi túngumálið, með tvennslags framburði. Optast nær umbreytist líka framandi orða hljóð nokkuð í íslenzkum munni; yrði því tíðum sú framandi stafasetníng raung í íslenzku, þó hûn sè rètt í frummálinu; t. d. Jósep segja Íslenzkir, er því *Jóseph* rángt, þó maðr kveði að *ph* eins og að *f*, sem er rètt í latínu, þannig er *ph*, *th* o. s. fr. ætíð rángt í norrænum orðum; því þar er þessum bókstöfum æfinliga skipt á milli tveggja atkvæða; t. d. upp-hæð, at-hug-ull, reyk-háf-r, mar-hálm-r; og í byrjun setja Íslenzkir alltaf *h* fyrir framan, t. d. hríngr, hverf, sem er þvert ámóti brúkun Latínumanna. Dugir því Íslenzkum at hafa eina stafasetníng í sínu máli, og hana íslenzka, og þurfa þá ýnglíngar ekki að kæra sig mjög um annara þjóða framburð, nema þeir vilja læra þeirra túngumál, og lesa bækr þeirra í frumriti.

þó ekki sèu fleiri bókstafir brúkaðir í latínskum eðr íslenzkum bókum, eru samt margir aðrir til hjá ýmsum þjóðum, sem brúka latínuletr, og næsta nauðsynligir í öðrum túngumálum. Á bókum, sem prentast hèr á Norðrlöndum sjást helzt þessir eptirfylgjandi;

**Å**, å hja Dönskum og Svenskum er lesið eins og *o*, t. d. **borinn**, á dönsku *båren*; aðrir skrifa *aa* í staðinn.

**Ø**, ø aðgreinist stundum frá *ö*, er þá hitt nær *u*, eðr nokkuð digrara nálægt *au*, t. d. **rauðr** á dönsku *rød* (en einganveginn **röð**); **glóð** á d. *Gløð* (ekki **glöð**); en **björn**, *Björ-n*; **þori**, *jeg tör*. Einnig í gamalli íslenzku finnr maðr *ø* fyrir *au* (eins og *é* fyrir *ei*); t. d. **brøt** fyrir **braut**, **burt**, Knytl. (bls. **189**, **193**, **204**). Mun það ega að lesa nálægt *brut*, og er þaraf komið **burt** med umflutningu ersins; en rángt mun í öllum þvílíkum tilfellum að láta prenta *ö*, þar eð jafnmikill munr er á **brött** og **brøt**, eins og á **hel** og **hél** **hell** og **héll** (sjá bls. 28).

**Ä**, ä brúkast af Þýskum og Svenskum, og hljóðar eins og *e* eðr *ê*, t. d. **tregr**, á þýzku *träge*.

**Ü**, ü hjá Þýzkum hefir sama hljóð og *u* hjá Íslenzkum, t. d. **kunst-ir**, á þýzku *Künste*.

**Ç**, ç í frönsku er lesið eins og *s* fyrir framan *a*, *o*, *u*, t. d. *façon*, sköpulag.

*W*, *w* í ensku hefir sèreiginligt hljóð eins og ofrlint *v*, nálægt *ú*; en í þýzku er það lesið rètt eins og *v*, en *v* er þar lesið eins og *f*.

Sèst allt þetta opt í manna nöfnum og staða, í hverjum sèrílagi Danskir taka sèr snið eptir þýzkum, t. d. Gräter, Müller, von Eck, Verden, og þótti þessvegna ekki ótilhlýðiligt að nefna það hèr, þó miðr viðkomi íslenzkum lestri.

## Aðgreiníngarteikn:

Af bókstöfunum verða atkvæði eða samstöfur, stundum gerir einn hljóðstafr atkvæði, t. d. *á*, *í*, *ó*, far-*a*, far-*i*, fór-*u*, optast eru samhljóðendr með í leiknum; verða af þessum tveir höfuðflokkar atkvæða: 1) þar sem samhljóðandi fer á undan eðr á eptir raddarstafnum eðr báðumegin; 2) þar sem samanhlaup af tveim, eðr fleirum samhljóðendum verðr fyrir framan eðr fyrir aptan eðr báðumegin. Sèst hèraf að hvortveggi flokkrinn er aptr þrískiptr, og mætti hægliga finna til smærri sundrgreiníngar, ef vert væri.

Af atkvæðunum verða orð, stundum af einu, t. d. æ, sjá, upp (bls. 6. 7.) stundum af fleirum saman, t.d. ætíð, sjáaldr, uppfylli; ríðr hèr mikið á að greina vel samstöfurnar í lestri og tali, t. d. á-sjá-ligt, ekki *ás-jál-igt*; mik-il-lig-a, ekki *mik-ill-ig-a*. Eigi er samt neitt merki brúkað í riti, til að sýna atkvæðaskiptin nema (-), sem brúkast í lestrarkverum handa börnum, en í almenniligum bókum einúngis hvar orði er skipt milli lína tveggja, t. d. mein-íng-in, elligar í mjög laungum og margsam-

settum orðum, t. d. fulltrúa-samsæti. Er það kallað *samteingíngarmerki*, (eða grísku orði *Hyphen*) en mætti kannske heita styttra *samstöfuteikn*, því jafnvel á enda línunnar, eðr í samsetníngu, sýnir það rauнar að samstafan er úti, en ekki orðið. Annars þarf sèrílagi að gá að orðsins samsetníngu eðr lögun, til þess að greina rètt atkvæðin, t. d. kon-úng-dóm-r-inn, veð-ri-nu, kær-leik-r, kerl-íng, spar-sem-i, svars-ins.

Þarf enn míklu framar í lèstri sínum að láta heyra hvar orðin eru úti, en í riti og prenti er siður, að gera dálítið bil ámilli orða, hvort sem þau eru laung eðr stutt, eins atkvæðis eðr fleiri.

Af orðum verðr mál allt, en eigi eru þau öll jafnnærri samanteingð sínámilli, jafnvel í einu máli eðr einni klausu: eru þessvegna viðtekin fjögr viðstöðumerki, að setja á milli orða, þar sem þurfa þykir.

(,) *Málsgreinarteikn* eðr *strik*, (grísku nafni *komma*), er sett þar sem málsgreinum skiptir, t. d. „*Hvaraf mun það koma, að börn eru svo gjörn á að skrökva, og venja sig á ósannindi?*" Stundum líka á milli einstakra orða, er standa í jöfnu sambandi með hinum orðunum í sömu málsgrein, t. d. „*Gróa er mikið grobbin, málug, raupsöm.*"

(;) *Liðarteikn*, *púnktstrik* (á lat. *semi-colon*), skilr ámilli liða sèrhvörrar klausudeildar, einnig á milli málsgreina, sem ekki hánga saman sín

ámilli, en standa þó í jöfnu sambandi vid hinn partinn af klausunni, t. d. bls. 25. l. 7. 8.

(:) *Deildarteikn*, *tvípunktr*, (grísku nafni *kólón)*, greinir framdeild klausn frá aptrdeild hennar, og brúkast líka, þegar annars manns orð verða tilgreind, t. d. bls. 25 l. 3; einnig þegar ýmsir hlutir verða upptaldir.

(.) *Klausuteikn*, *púnktr*, (á lat. *punctum)* brúkast þegar heill þánki er á enda, hvort sem vera kann lengri eðr styttri, t. d. bls. 24 l. 6.

Einnig eptir bönd eðr skammstafanir, svo sem: t. d.; o. s. fr.

Enn eru sex ræðulagsmerki brúkuð á bókum, nefniliga:

(?) Spurníngarteikn, brúkast að endaðri spurníngn, t. d. *Hvaraf kom nú allt þetta?*

(!) Upphrópunarteikn, brúkast eptir ákallanir, og þá menn dást að, furða sig eðr kveina yfir einhvörju, t. d. *Nú*, *faðir minn! þèr skuluð sjá það*, *hvort eg verð myrkfælin hèðanaf.* En það er aðgætandi, at hafa ekki upphrópunarteikn nema á einum stað um sinn, t. d. *Nei*, *þú skalt ekki fá þær!*

(—) Þagnarmerki sýnir litla þögn, þegar eitthvað ótrúligt eðr mjög ólíkligt kemr á eptir, en stundum er það haft til aðgreiníngar ýmsra mála í sömu grein, t. d. bls. 28, l. 8.

(...) Stönsunarmerki, sýnir að maðr hættir tali sínu, af því hann vantar orð, eðr annar maðr tekr málinu fyrir. Stundum er sett

——— í staðinn. En *** er brúkað í útgáfum fornrita, þar sem vantar í.

() *Innsetníngarklofar* (grísku nafni *parenthesis)* eru settir utan um orð eðr málsgrein, sem skotið er inn í aðra til upplýsíngar eða fróðleiks, en heyrir þó ekki eiginliga samheinginu til. Í fornrita útgáfum eru () settir utan um orð þau, er útgefarinn vill innsetja, þó þau finnist eða sjáist ekki í handritum, en [*burttökuklofar*] um þau, er hann vill útstrika, þó þau standi þar.

„" *Tilgreiníngarmerki* (á lat. *signum citationis)* eru sett um annars manns orð, sem innfærast, t. d. *þau töluðu vingjarnliga til hans, og frúin sagði: „þèr munuð vilja skoða kálgarðinn okkar"* o. s. fr. En þegar lángt stykki þannig tilgreinist, er vant að setja fremra merkið við byrjun hvörrar línu, svo lángt sem það nær, t. d. Sumargjöf bls. 92.

Mætti enn til tína nokkur merki, er brúkuð eru á bókum, t. d.

:,: *Ítrekunarmerki*, er brúkast í sálma- og kvæðabókum.

§ *Greinaskiptamerki* í heimspekiligum ritum.

(') *Úrfellir*, (grísku nafni *apostrophus)* er sett ofan við staf þann, er í saung á úr að fellast, t. d.

Fjórar frægar stýra
frómleik, veg og sóma
allra manna' í milli
marg-hæfar til gæfu:

friðum fylgir systrum
fjöldi' af dygðum völdum,
þær prýða dýrum dáðum
dreing þann, eptir geingur.

(ɔ:) *Útskíríngarmerki*, t. d. Kaupmannahafnar Úníversítêt ɔ: háskóli.

† *Dauðamerki* er opt, í sögubókum eðr tímatals töflum, sett fyrir framan það ár, sem maðr dó, t. d. Árni Magnússon † 1730.

□ *Ferhyrningsmerki* er brúkað í landaskipunum, t. d. *Ísland er hèrumbil* 1400 □ *mílur* (ɔ: ferhyrndar mílur) *á stærð*.

Margskonar teikn önnur eru brúkuð á almanökum, mælifræðibókum, lækníngarbókum o. s. fr., sem hèr er sleppt, af því þau tilheyra ekki almennum lestri.

---

## Nokkrir Orðskviðir

### í stafrofsröð til frekari æfíngar:

Allt vill lagið hafa.
Aldrei skyldi seinn maðr flýta sèr.
Annað er hausthugi, annað vorhugi.
Aptr rennr lygi, þegar sönnu mætir.
Argr er sá, sem öngvu verst.
Bágt er að róa einni ár.
Betra er seint enn aldrei.
Betra er autt rûm, enn illa skipað.
Betra er að veifa röngu trè enn öngu.
Brent barn forðast eldinn.

Dauðr er höfuðlaus her.
Djarfr er hvörr um deildan verð.
Djarfr er ósóminn.
Djúp vötn hafa minstan gný.
Dregst til þess, er verða vill.
Einginn er öðrum sjálfr.
Einginn verðr ágætr af öngvu.
Einhvörstaðar verða vondir menn að vera.
Ekki er gaman, nema gott sè.
Ekki er ráð, nema i tíma sè tekið.
Fár veit hverju fagna skal.
Fátt er það, sem fulltreysta má.
Flas og Slis eru opt förunautar.
Frekr er hverr til fjörsins.
Frestr er á illu beztr.
Gataðr belgr gloprar öllu niðr.
Geingr hverjum nokkuð til gjörníngs síns.
Gjörn er hönd á venju.
Glöggt er gests auga.
Gott er annars víti að hafa að varnaði.
Hátíð er til heilla bezt.
Heima er haninn frakkastr.
Hvað elskar sèr líkt.
Hvörr er sjálfum sèr næstr.
Hvörjum þykir sinn fugl fagr.
Illa gefast ill ráð.
Illr feingr illa forgeingr.
Íllt er að eiga þræl fyrir einka vin.
Iðnin eykr alla ment.
Í umgeingninni vinna menn eðr missa mikið.
Já og nei gjörir lánga þrætu.

Jafnaðargeð er gott að rækja.
Jafnir laungum leika bezt.
Jeg er ekki lambið, sem þú leitar að.
Jöfnuðrinn er ekki rèttlæti, heldr svo sem lögin bjóða.
Kappi skyldi jafnan fylgja forsjá.
Karl og kona er hvört annars þurfi.
Kemst, þó seinna fari.
Keyrðu ekki, fyrr enn þú kemst á bak.
Kornið fyllir mælirinn.
Lagðr vegr segir leiðina.
Lastvar skyldi sá aðra lýtir.
Leingi er hverr hinn sami.
Litlu verðr Vöggur feginn.
Lög eru bræðra sættir.
Maðr er manns gaman.
Margr er knár, þó hann sè smár,
en linr, þó hann sè lángr.
Mátinn er marghæfastr.
Mikið skal til mikils vinna.
Mjótt er mundángshófið.
Náið er nef augum.
Náttúran er náminu ríkari.
Nauðin kennir naktri konu að spinna.
Nýtr er hvörr sig fæðir.
Nær er gröf enn í gær.
Ófróðr er sá einskis spyr.
Óplægða jörð er óhentugt að sá.
Opt hafa litlar vonir að góðu orðið.
Opt má lítið lagliga fara.
Orða sinna er hvörr ráðandi.

Passligt prjál en um of
prýðir sèrhvörn, alla skemmir.
Peníngrinn er krínglóttr, svo hann velti milli allra.
Prettr er fölsk mynt, enn prettarinn er þó verri.
Prófsteinninn reynir gullið, en gullið manninn.
Prúðr er hvörr, meðan peníngrinn stoðar.
Rángfeingið fè gjörir rírð í búi.
Raunin er ólýgnust.
Reiðin er stutt æði.
Ríkra manna lygar þykja fátækra sannindum fegri.
Rógs munnr er ránglætis brunnr.
Sannleikrinn er sagna beztr.
Sèr grefr gröf, þó grafi.
Sínum augum lítr hvörr á silfrið.
Sjaldan fer betr, þá breytt er.
Sjálfs er hönd hollust.
Tamr er barns vandinn.
Tekst ef tveir vilja.
Til alls þarf nokkuð.
Trúðu ekki þínum eyrum, ef þú trúir eigi þínum augum.
Tvö eru hófin, og ratar heimskr hvorugt.
Úlfr er sá með úlfum venst.
Úngum eykr sæmd gott at læra.
Úr mannraunum er mjög vandratað.
Úti er vinskaprinn, þá af er könnunni.
Úti er þraut, þá unnin er.

Valt er völubeinið (teníngrinn).
Vandi fylgir velsemd hverri.
Vant er að þekkja vin, vandara að halda honum.
Veit hönd hvað hefir.
Vitið er verði betra,
valla hafa það allir.
Yfir lífinu hángir endirinn alltíð.
ýmsar verða (ferðir), þá margar fer.
Ypparlig verk eru trúuðum og vantrúuðum sameiginlig.
Ytri verkin vitna um innri manninn.
Yzt við dyr skal óboðinn sitja.
þar eru eyru sæmst, sem uxu.
það úngr nemr, gamall fremr.
þeir mega sletta skyrinu, sem það eiga.
þraungt mega sáttir sitja.
þögn er heimskum bezt.
Æ koma mein eptir munað.
Æ lítr gjöf til gjalda.
Ærin eru óhöpp, þó eitt hjálíði.
Ærligt líf er í sjálfs valdi.
Ætíð rignir hinu sama.
Öfundsjúkir menn eru sínir eigin kvalarar.
Ölr er annar maðr.
Öndverðir skulu ernir klóast.
Öngvum er alls varnað.
Öngvum er batinn fyrirboðinn.

## Hið íslenzka eðr gotneska stafrof.

Það eru nú rûm tvö þúsund ára síðan Rómverjar löguðu þetta stafrof, sem þeir höfðu af Grikkjum feingið, eptir máli sínu, og fóru að skrásetja með því kvæði og fræði á latínu. Með kristninni útbreiddist það um mestalla Norðrálfu heims, en umbreyttist nokkuð af ýmsum þjóðum, sem við því tóku, eptir ýmisligu eðli túngnanna; þannig feldu Eingilsaxar *k* og *q* úr, en bættu við *v*, *þ*, *ð*; var þetta einnig viðtekið af Norðmönnum, nema að þeir, þó mjög seint, tóku við *k* í staðinn fyrir *c*, og við *j* og *ö*, sem í fyrndinni ekki var aðgreint frá *i* og *o* eðr *au*. En önnur umbreytíng stafrofsins, skaðsamligri heldr en nytsamlig, var sú, er ýmsar þjóðir mynduðu teiknin sjálf ýmisliga, þó allar þættust með latínsku letri skrifa; skeði það smámsaman, og var varla eptir því tekið, fyrr enn prentverkið var fundið; þá var stafrofið eða heldr skrifhöndin mjög umbreytt af múkunum, sem voru helztir skrifendr í þá daga, er það kallað múkaletr, og var brúkað jafnt á latínskum bókum og öðrum. Þegar farið var að prenta bækr, var nauðsynligt að mynda prentstílana eptir þá brúkanligri skrift, svo læsiligir yrðu, og varð því múkaletrið almennt í prentuðum bókum latínskum, frönskum og enskum einsvel og hollenzkum, þýzkum og dönskum á öndverðri 16du öld. En á Vallandi var stafamyndunum miðr breytt, og var þar farið að prenta latínskar bækr og valskar með því

rètta, gamla, mjög snotra rómverska stafrofi; tóku aðrar þjóðir það upp í latínskum bókum og smámsaman Franskir, Enskir, og Pólskir einnig í sínum eigin bókum; en hinar norðlægu þjóðir umbreyttu aptr múkaletrinu nokkuð í sínum prentbókum, var það þá kallað ýmist, þýzkt á þýzkalandi, danskt í Danmörku, svenskt í Svíaríki og íslenzkt á Íslandi, þykir það miðr rètt, þar eð það er eingri af þessum þjóðum sèreiginligt, og mun betra að kalla það gotneskt eptir sameiginligu nafni þessa þjóðaflokks. Ekki er það heldr einsamalt brúkað í neinu gotnesku túngumáli; því farið er fyrir laungu á þýzkalandi að prenta flest öll lærð tíðindi, eins og bækr í náttúruvísindum og fornrit o. s. fr. með latínskum bókstöfum, einnig í Danmörku, t. d. Vísindafèlagsins, skandinaviska fèlagsins og fleiri fèlaga ritsöfn, og á íslensku er alkunnugt að flest-allar vandaðar sögubækr eru með latínu letri prentaðar. þykir það rèttara, fyrst það latínska er bæði eldra og snotrara, en í raun og veru það sama, það lat. er líka miklu fullkomnara, þar eð það hefir fleiri áherzlumerki, og greinarmun á I og J, d og ð, Œ og Ø, o. s. fr. og er læsiligt alstaðar í kristninni; einnig, þegar vel er skrifað, mjög líkt því prentaða, hvarámóti fljótaskriftin, sem heyrir því gotneska til, hefir umbreyzt svo stórkostliga, síðan prentverkið fannst, að varla nokkur stafr skrifaðr, eins og nú tíðkast, er þekkjanligr af samsvarandi prentfígúru, svo að maðr getr lesið vel á

bók, og þó valla komizt fram úr neinu orði á brèfi með því letri; ollir það miklum tímaspillir og leiðindum fyrir únglínga; eins og það yfirhöfuð er tilgángslaust og skaðligt, að hafa mörg teikn fyrir einn hlut.

Samt sem áðr þarf ennú nauðsynliga að þekkja þetta gotneska eðr svokallaða íslenzka letr, og er það þannig útlítandi:

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| A | a | A a, | a | | P | p | P p, | p |
| B | b | B b, | b | | Q | q | Q q), | q |
| C | c | C c), | c | | R | r | R r, | r |
| D | d | D d, | d | | S | ſ s | S ſ s, | s |
| E | e | E e, | e | | T | t | T t, | t |
| F | f | F f, | f | | U | u | U u, | u |
| G | g | G g, | g | | V | v | V v, | v |
| H | h | H h, | h | | X | x | X x, | x |
| I | i | I i, | i | | Y | y | Y y, | y |
| J | j | J j, | j | | Z | z | Z z, | z |
| K | k | K k, | k | | Þ | þ | Þ þ, | þ |
| L | l | L l, | l | | Å | å | Å å), | å |
| M | m | M m, | m | | Æ | æ | Æ æ, | æ |
| N | n | N n, | n | | Ø | ø | Ø ø, | ø |
| O | o | O o, | o | | Ö | ö | Ö ö, | ö |

þýzkir hafa einnig hèrtil W, w, å, ů, en í staðinn fyrir Ä, Ö, Ü er optast brúkað Ae, Oe, Ue í þýzkum bókum. Ekki er vant að hafa nema einslags áherzlumerki við þetta stafrof, nfl. ('), svo að nauðsynligt er að prenta

annaðhvort je eðr é fyrir è, en sleppa öldúngis â, é, ê, û og æ, þegar þetta gotneska letr er brúkað; er þá líka vant að prenta ø fyrir ó.

Atkvæðin eru sjálfsagt þau sömu, með hvörju letri sem þau skrifast, þarf þessvegna ekki hèr að ítreka þau, en til æfíngar í lestri og skilníngi málsins, einnig í samfastri ræðu, mega þèna:

## Nokkrar êsópiskar dæmisögur,

### með lag sem Oddsbragr.

1. Um Hanann, sem fann gimsteininn.

Haninn rótar haugi í,
og hittir perlu í sorpi því:
„byggkorn, segir hann, betra' er mér
„en birtan sú, sem stendr af þér."
Heimskum lukkan hnossið opt
í hendr ber.

2. Um Hundinn og Kjøtstykkið.

Hundrinn krás í kjapti ber,
kominn að á sinn skugga sér;
þann hyggst rena, og þrífa á lopt, —
þaut burt kjøt, er glennti hann hvopt.
Þá hugrinn mikið, høndin lítið
hefir opt.

3. Um Asnann og Hvelpinn.

Húsbóndinn við hvelp sér lék,
hønum klappar, og líðr brek;
það sér asni, og í hans kné
uppstøkkur, en — slæst með tré.

Eigi er virt fyrir öllum eins,
þó eitt verk sé.

4. Krákan með lánsfjöðrum.

Af fuglum öðrum krákan kæn
í kyrtil sinn hlaut síðr með bæn;
en þegar dramblát sómdi sér,
sína burttók fjöðr hver.
„Valt er lánsfé, krákan kvað,
því kvíða ber."

5. Um Apann og Refinn.

Ref bað apinn, aptan ber,
einn lið gefa af rófu-sér.
„Þó yrði' eg að flytja 'na færleik á,
forið tér, þú skyldir ei fá!"
Ágjarn vill við aumíngjann
af aungvu sjá.

6. Um Ljónið og Refinn.

Sjúku ljóni tóa tér,
sem teygja vildi' hana inn að sér:
„Eg hræðist spor, þau horfa inn,
en héðan eingin liggja finn."
Margt er að varast, vertu gætinn,
vinr minn!

7. Um Trönuna og Úlfinn.

Trana' um kaup sitt taladi ein,
sem togaði' úr kverkum úlfsins bein.
„Bjóstu, sagði' hann, betra við?
„Veit eg ei af þér höfuðið!"
Hjálparmann að hata tel eg
hrekkja sið.

8. Um Læknirinn og þann dauda.

Læknirinn í líkfør manns
lýsir því fyrir vinum hans:
„við vín ef hefdi ei lagt sitt lag,
lifa mundi hann enn í dag."
Ósvinnum koma eptirrádin
illa' í hag.

9. Um Húsfreyu og Gridkonur.

Húsmódir, nær haninn gól,
hrøkkti upp þernur fyrir sól;
þær drápu hann, en héreptir
hálfu fyrr hún vekja fer.
Margt fer stundum ødruvís,
enn ætlad er.

10. Um Magann og Limina.

Limirnir segja: „letjumst vér,
latr magi! ad þjóna þér."
Þegar neita þørfum hans,
þverrudu burdir líkamans.
Ósamþykkid audnuleysi
ollir manns.

11. Um Apynjurnar.

Apynjurnar dansa dátt,
dúdadar upp med silkid smátt:
þær neita skarti, og synja seim,
nær sýnd voru søgr epli þeim.
Þó náttúran sé lamin med lurk,
hún leitar heim.

12. Um Varið.
Tígulsteinsins hátt upphaf
og hörku, feingna eldi af,
ófundar var, og fer á flakk
framm að glóð, og rann sem lakk.
Vittu að sníða vexti eptir
vænan stakk.

13. Sér sjálfum næstr.
Sætan átti sjúkan mann,
sér kaus dauða, ef lifði hann.
Þegar Hel sér þreyngði inn;
„þarna' er, segir hún, maðrinn."
Hvörr finnst næstr sjálfum sér,
nær sorg er stinn.

14. Um Asnann, sem rasaði.
Lúinn asni latraði' um hlað,
sem leingi hafði' og vel þjónað:
hann rasaði' um stein, en sá á sat,
með svipum keyrði hann fast, sem gat.
So launar margr sopna mjólk
og svelgðan mat.

15. Um Músina og Hrafninn.
„Kæra mýsla! krummi tér,
kroppaðu snöru af fæti mér."
Liðsemd músin lét í té,
losnaðr henni slátraðe.
Aldrei gott er oflaunað, nema
illu sé.

## 16. Um Refinn og Krókódílinn.

Kappskraf høfdu um kynþátt sinn
krókódíll og refrinn.
„Ei þarf ordin, tóa tér,
teiknin gjørvøll skinnid ber."
Af munni laungum merkjast kann,
hvør madr er.

## 17. Um Eikina og fleigana.

Greinir trjánna garprinn hjó,
og gilda fleiga sér tilbjó;
stundi eik, er átti føl
af eigin kvistum reyna kvøl.
Sárt er ad lída af sér nákomnum
sorg og bøl.

## 18. Um Asnann, sem þrír áttu.

Brædr erfdu asna þrír,
allir brúka vinnudýr:
þeir møttust um ad metta hann,
í megrd af því deya vann.
Úr dáliga snýttu dreyrinn nesi
detta kann.

## 19. Um Mýsnar og Køttinn.

Mýs samtóku soddan rád,
ad sauma bjøllu' á køttinn med þrád;
þá hvør adra um þetta bad,
þordi eingin kisu ad.
Hægra' er ad kenna heilrædid,
enn halda þad.

## 20. Um Hrafninn og Úlfinn.

Hrafn af úlfi heimtir krás,
því hønum ætíd fylgdi' á rás;
áztu bráð, en ei gafst mér,
úlfr talar, þá svo við ber.
Gættu að af hvørju gedi
gjørt sé þér.

## 21. Um Gæsir og Trønur.

Gæsir og trønur eru með á,
eingin veiðimanninn sá;
þúngar gæsir fángast frí,
flugu margar trønur um bý.
Létt er þeim, sem laus flakkar,
það lærðu' af því.

## 22. Um Gamminn og Fuglana.

Gammrinn fuglum gjørði í hag
gestabod á fædíngardag:
ølvaða þar alla hann
óvart drap í læstum rann.
Í vellystíngum voði' er nær,
enn varir mann.

## 23. Um Hænuna, sem átti gulleggið.

Húskarl átti hænu þá,
sem hvørn dag fagrt gullegg á;
krufði, og ætlar innra þar
sé undra gull, en fann ei par.
Fíknin spillir feingnum hlut,
sem fyrir var.

24. Um Fjøllin jóðsjúku.

Furdadi sig firda drótt,
fjøllin tóku léttasótt:
felmtrar líka fólkid þreytt
fæddist — músargreyid eitt.
Hlýzt opt smátt af høggi því,
sem hátt er reidt.

25. Um Pødduna.

Paddan upp sér allri skaut,
ætladi' ad verda stór sem naut.
„Þó þú springir, módir! med,
mælti son, þad getr ei sked."
Heimskra manna hátt úr máta
hugsar ged.

26. Þrætan um asnann.

Asnann fundu ýtar tveir
eignast vildu' hann bádir þeir;
en sem þrátta' um þenna plóg,
þrammadi' asni út á skóg.
Missast kunna kjørgripir
fyrir kíf og róg.

27. Um Asnann sjúka.

Fregn var ad asninn félli' í sótt,
fóru hundar ad vitja 'ns skjótt;
følur sagdi fljótt vid þá:
„færari' er eg, enn vildud sjá."
Sum vinátta' er svikum næst,
þad sést hérá.

## 28. Um Krabbann.

Krabbinn segir son sinn við:
„sífelt geingr þú út á hlið."
„Ef þín spor væri áfram sett,
ansar hinn, þá gengi eg rétt."
Hvør aðra síðar, sjálfr ræki
sína stétt.

## 29. Um Karlinn og Dauðann.

Karl ørmæddr byrði ber,
og bað grátandi dauða sér;
kom þar dauði, en karl viðbrá,
og keyrði' uppá sig bagga þá.
Dýrt er líf, og fagrt sjør,
nær farast á.

## 30. Um Mýsnar og Køttinn.

Køtturinn vært í kyrðum lá,
komu mýslur þetta að sjá;
ein fer að kyssa kisu í stað,
kokkuð var hún strax í spað.
Opt er flagð í føgru skinni,
forðastu það.

---

Um hvorttveggja letrið gildir það, að Upphafsstaf-
ir eru brúkaðir í einkanøfnum manna og staða, líka
í þjóðanøfnum, t. d. Ingólfr, Þóra, Reykjavík,
Íslenzkir. Einnig eptir klausuteikn og spurníngarteikn,
og í byrjun sérhvørrar greinar; en eigi er almennt

ad hafa þá í embættanøfnum, vidnøfnum né fyrirnøfnum; nema á titilblødum eda stundum í fyrirsøgnum.

Enn er vandi nokkur í íslenzkri réttritun um ad tvøfalda n í nidrlagi orda; held eg þessar reglur hérum muni finnast helzt samstemma fornmanna rithætti.

## Tvøfalt n hafa:

Karlkennd vidnøfn uppá -inn, t. d. feginn, galinn; til adgreiníngar fra kvennkyni og hvørkiskyni þessara orda, t. d. hûn varð fegin; þau urðu fegin; þykir þad rétt; því nn er þar í stadinn fyrir nr. Einnig í fyrirnøfnum, t. d. minn vin, mín systir, hinn góði, hin góða; og líka þegar greinirinn (artikulinn) er samansettr med nafninu, t. d. maðr-inn, mann-inn, faðir-inn, föður-inn, geisli-nn, geisla-nn, en kona-n, móðir-in; augu-n, börn-in.

## Einfalt n hafa:

1) Kvennkennd vidnøfn á in, líka fyrirnøfn, greinirinn o. s. fr., sem nú var sagt; sanna þad mørg ønnur vidnøfn vidlíkrar endíngar, t. d. einn bróðir er karlkennt, en ein systir kvennkennt, líka hvørugskyns í margtølunni, svo sem ein skæði; einnig grænn völlur, græn urt, græn föt.

2) Karlkennd vidnøfn í þolanda eintølunnar uppá -an, t. d. góðan mann, grænan völl; einnig vidsagnir sømu endíngar, t. d. róa harðan, koma að vestan, standa fyrir utan.

3) Einnig í karlkenndum nøfnum þykir einfalt n réttara, þó fornmenn hafi stundum tvøfalt skrifad;

t. d. himin, aptan, eins og mælir, hamar, ekki mælirr, hamarr.

---

## Tølustafir.

Þeir eru einúngis tíu, og er það undrunarverd uppáfynding, med þessum tíu teiknum ad geta skrifad hvørsu háfa tølu, sem vera vill. Þeir eru fyrst fundnir á Indíalandi, þar námu Serkir þá, og fluttu med sér vestr í Affríku, og þadan nordr á Spán og Valland, og dreifdust þeir þadan um alla Nordrálfuna. Þeir eru þessir eptirfylgjandi:

| | |
|---|---|
| **0 núll, þýdir ekkèrt;** | **5 fimm;** |
| **1 eitt, einn, ein;** | **6 sex;** |
| **2 tvö, tveir, tvær;** | **7 sjö;** |
| **3 þrjú, þrír, þrjár;** | **8 átta;** |
| **4 fjögr, fjórir, fjórar;** | **9 níu.** |

Þessar tølur eda sífffrur, sem ekki taka nema eins bókstafs rúm í línunni, kallast einíngar, og merkja einúngis svo mørg stykki einføld, sem talan hljódar uppá, t. d. **5 fiskar** þ. e. fimm fiskar einir. En þegar tveir tølustafir skrifast, þá merkir sá sem stendr hægramegin einíngar, eins og nú var sagt, en sá sem stendr vinstramegin, edr í ødru rúmi, frá hægri hlidinni at reikna, merkir tíusinnum eins mørg stykki og hann hljódar uppa, t. d. **55**; þ. e. fimmtíu og fimm, **65** sextíu og fimm, **56** fimmtíu og sex; kallast þessir í ødru rúminu tugir, t. d. **11** fiskar þad er einn tugr fiska og einn fiskr ad auki, edr einu ordi ellifu (fiskar), þannig líka:

| | |
|---|---|
| 12 tólf | 16 sextán |
| 13 þrettán | 17 sautján |
| 14 fjórtán | 18 átján |
| 15 fimmtán | 19 nítján. |

Þegar þrír tøluſtafir ſtanda ſaman, þá merkir ſá þridji frá hægri hlid (þad er ſá fremſti) ſvo mørg-hundruð, ſem hann hljódar uppá, t. d: 555, fimm hundrud, fimmtíu og fimm. 657 ſex hundrud, fimmtíu og ſjø. Kemr ennú ſá fjórdi til, þá merkir hann enn tíu ſinnum ſvo mørg hundrud, ſem hann mundi tákna, ef hann ſtædi í þridja rúmi, og heita þad þúsundir; t. d. 6557 ſex þúſund fimm hundrud og fimmtíu ſjø. Þannig framvegis ſvo margir ſem madr bætir vid vinſtramegin, þa merkir hverr einn tíuſinnum fleiri enn ſá næſt undangángandi, þó ekki hafi menn í málinu ſéreiginlig ord fyrir allra gildi, ſem yrdi raunar óendanligt: ſá ſem ſtendr á fimmta plázi merkir þá tíu þúsundir, en á ſjøtta plázi hundrað þúsundir, og á ſjøunda plázi þúsund þúsundir, heitir þad einu ordi millión; ſvo ſem hér ſegir:

Sig mest merkir hinn fyrsti,
mann tíu kvað annar,
hundrað þýðir hinn þriðji,
þúsund fjórði, vel grunda,
tíu þúsund tel fimta,
tel hundrað þúsund sjötta,
sjöunda mèr klerkar kenndu,
að kalla þúsund þúsunda.

En þegar ſvo margir verda tøluſtafirnir, er vant ad ſkipta þeim med ſtriki eptir þridja hvørn, til hægra yfirlits. Getr madr þá vitad ad ſú tala ſem ſtendr

næst áeptir strikinu þýdir hundrud, t. d. 6,961,499 ferhyrndar mílur af jardarinnar yfirbordi eru huldar af sjónum.

Nú kann eitt edr annad rúm ad vera autt; þá er þar sett núll í stadinn, svo hinna rød truflist ekki, t. d. madr kann ad eiga rétta þrjú hundrud ríkisdali, en aungvan tug né heldr einstakan ríkisdal yfir, þá skrifast þad 300; ef hann á þrjú hundrud og sex einstaka, en aungvan tug, þá skrifast 306; í hverjum hríng eru þrjú hundrud og sextíu mælistig, en ekkert þaryfir, skrifast þad 360 o. s. fr. Hértil er núllid ómissandi því skrifadi madr 36 án núlls, yrdi þad þrjátíu og sex, en ekki þrjú hundrud og sextíu; líka ef madr skrifadi 3 fyrir 300, yrdu þad þrír dalir, en ekki þrjú hundrud. Þannig þýdir 10 einn tug, þ. e. rètta tíu,

| | |
|---|---|
| 20 tuttugu, | 60 sextíu, |
| 30 þrjátíu, | 70 sjötíu, |
| 40 fjörutíu, | 80 áttatíu, |
| 50 fimmtíu, | 90 níutíu, |
| en 100 eitt hundrað, | 200 tvö hundruð o. s. fr. |

Þegar minna er enn eitt stykki af hvørju sem helst, kallast talan brotin, og skrifast þannig:

$\frac{1}{2}$ les: hálft, hálfr, hálf;
$\frac{1}{3}$ - einn þridjipartr;
$\frac{2}{3}$ - tveir þridjupartar;
$\frac{1}{4}$ - einn fjórdipartr;
$\frac{3}{4}$ - þrír fjórdupartar;
$\frac{2}{5}$ - tveir fimmtupartar;
$\frac{5}{7}$ - fimm sjøundupartar;
$\frac{1}{9}$ - einn níundipartr;
$\frac{9}{13}$ - níu fimmtándupartar;

$\frac{13}{45}$ les: þrettán fertugustu-og-níundupartar;

$\frac{14}{100}$ - fjórtán hundrudustupartar;

$\frac{3}{1011}$ - þrír þúsundustu-og-elleftupartar o. s. fr.

Auk þessarar addáauliga fullkomnu tøluskriftar, er enn stundum brúkud ønnur, uppfundin af Rómverjum, og þessvegna kølluð sú rómverska, þó mjøg rángsnúin á seinni tímum, svo ad teiknin eru færd til líkíngar med sjø upphafsstøfum af latínska stafrofinu, er þau hafa þó í raun og veru alls ekkert med at gjøra; af þessum sjø teiknum þýdir

I eitt, V fimm, X tíu, L fimmtíu, C hundrad, D fimm hundrud, M þúsund.

Þegar milliliggjandi tølur skulu skrifast, þa er vid-tekid ad setja jafnstóra tølu tvísvar eda þrísvar, skilst þá ad þær ega saman ad leggiast; einnig þá smærri tølu, sem til á ad leggjast, aptan vid þá stærri, en fram-an vid, þegar frá á ad dragast, t. d. II eru jafn-stórar tølur, verda því samanlagdar, og þýda tvö, einnig III, er þýda þrjú, en IV þýdir fjögr stykki, VI sex, IX níu, en XI ellifu, XLIX fjörutín og níu, LX sextíu, CCC þrjú hundruð, CD fjögur hundruð, o. s. fr.

Í Reikníngsbókum eru brúkud:

| | | |
|---|---|---|
| = líkíngarmerki, | t. d. 1830 | = MDCCCXXX |
| + Samlagníngarmerki | - 4 + 6 | = 10 |
| — Frádragníngarmerki | -10 — 6 | = 4 |
| × Margföldunarmerki | - 2 × 5 | = 10 |
| : Deilíngarmerki | -10 5 | = 2 |
| ° mælistig eðr gráða | - hríngr | = 360° |
| ′ minúta | - 1° | = 60′ |
| ″ sekúnda | - 1′ | = 60″. |

Hér má enn merkja þau helztu bønd edr skammstafanir, er tídkast í prenti.

Al. Aln. = alin, álnir;
blſ. = blaðsíða;
Cap. Kap. = kapítuli;
ꝛc. &c. = *et cetera* ɔ: og svo framvegis;
Fd. = Fjórðúngr;
Hra. = Herra;
ℌ = Hundrað;
Lpd. L℔ = lísipund;
Mk. ℳ = mörk, mark;
m. m. = með meira;
Mr. = *Monsjør* ɔ: Herra;
No. Nr. = númer;
n. v. = nafnverð;
o. s. fr. = og svo framvegis;
Pag. = *pagina* ɔ: blaðsíða;
Pd. ℔ = pund;
Rd. = ríkisdalr;
Rbd. = ríkisbánkadalr;
Sk. ß = skildíngr;
Skpd. Sk℔ = skippund;
Sra. = Síra;
St. = sánkte;
s. v. = silfrverð;
t. d. = til dæmis;
þ. = þann;
þ. e. = það er;
þ. á. = þessa árs;
þ. m. = þessa mánaðar.

Þegar siffrurnar brúkast fyrir ordutølur, eru þær ad álíta eins og bønd, og þarf ad setja púnkt aptan vid til adgreiníngar frá fjøldatølunum, t. d. 3 ℔ ɔ: þrjú pund; þ. 3. mají ɔ: þann þriðja mají.

**Endir.**

